# Níutíu og þrír

# Hugvekju Sálmar

útaf,

# Stúrms Hugvekna

1sta Parti

frá Veturnóttum til Laugaføstu og
til vissra tíma

orktir af

Síra Jóni Hjaltalín,
Presti til Breidabólstadar á Skógarstrønd.

Kaupmannahöfn.
Prentadir í S. L. Møllers prentsmidju.
1835.

## 1. Sálmur.

### A sídasta Sumardag.

Lagid: Um daudann gef þú, Drottinn! mér.

Upphaf og endir æfi manns Ødru hvørt ná-lægt heitir, Leid er til dauda lífid hans, Lífs kjørum tídin breytir; Svo sem flugstraumar fossum af Fram í eylífdar grunnlaust haf Hún oss farandi fleytir.

2. Slíkt vitnar sérhvørt sólarlag, Serhvør missiris endi, Sem leidir oss nær daudadag, Dag þann snart fyrir hendi, Høfum máské ei hugleidt vér, Né hvørsu lífid skammvint er, Hvad sumars kvøld nú kéndi.

3, O, ad sú hugsun: æfin þver, Oss vissa gjøra nædi, Svo ad forsjálir vøndum vér Vort líf, en heims flárædi Vørumst, ad blindni ecki í Eydum gálausir lífi því, Sem veikt og vallt er bædi.

4. O Gud! þín mildi', en ei vor dád, Er þad og líknin mesta, Ad fyrir laungu lífs vors þrád Léttlu ei sundur bresta; Hvørnig gétum vér þackad þér, Þetta sumar oss vægdir hér, Og léntir lidsemd besta.

5. Frá votum hrærdu hjørtum þú, Herra! audmjúkt þacklæti Medtak í Jesú nafni nú, Nád þín vor brot uppræti. Æ, á komanda vetri vér Vongódir enn oss felum þér, Umsjón þín ad oss gjæti!

6. Hjá þér vér leitum hælis nú, Hjástód þín oss umvefur, A þad vér setjum alla trú, Oss Jesús fridkeypt hefur. Leid oss blessada út og inn, Inntil þess dýrdar føgnud þinn Oss þú um eylífd géfur!

## 2. Sálmur.

### A fyrsta Vetrardag.

Lagid: Frid veit þú voru landi.

Aldrei vort ástand yrdi Ottaligra hér jørdu á, Enn ef vor ønd ei þyrdi Ad vona uppá Guds forsjá; O hvad hvør syndasekur Sárkvída mætti hér Tíd þeirri', er nálgast tekur, Ef

treysta ei mætti þér, Vor Gud! sem lýd þinn leidir, Lífsins blessandi hag, Og veg vorn allan greidir Eins nótt sem bjartann dag.

2. Enn þad oss alla gledur, Þrfar þacklæti, von og trú, Ad vér ánægju medur Umsjón þinni oss meigum nú Fela, Gud Fadir bestur, Fríir vid synd af nád; Adgjætslu ei þann brestur, Er þinni treystir dád; Oss hønd þín útryckt gétur Af allri neyd og pín, Og annast enn í vetur, Aldrei þinn máttur dvín.

3. Ad sønnu óttast meigum Ymsar freistingar, neyd og stríd, Er kannské mæta eigum A nú komandi vetrar-tíd; Samt látum sízt hugfallast, Sízt efum Drottins rád, Vort traust skal heldur hallast Ad hans forsjón og nád, Fyrir hann fram vér berum Fúsir, hvørs þurfum vid, Þarum svo vissir verum, Veitir hann styrk og lid.

4. Oss þó í vetur ætti Upprenna dymmleit banamótt, Vér þinni vernd og mætti, Vor Gud! treystum med sinnid rótt; Hvad oss ad høndum kémur, Helzt fyrir bestu er; Vér því oss selum fremur, Fadir trúr! einum þér; Sem ønd, líf, eign, adsetur, Oss forda synd og

neyd, Byrjadann blessa vetur, Blessa oss líf og deyd!

## 3. Sálmur.

Lagid: O Gud! sem geymir Israel.

Ad gladir sjáum endíng dags, Og væntum hins ad morgni strax, Þvílíkt ávøxtur þægur er, Þess traust á Drottni høfum vér.

2. Vora hann mædu veit og størf, Vora hann líka bætir þørf, Til þrautaléttirs þarmed hann Þau bestu medøl velja kann.

3. Hvørnin kann vera hagur manns Hulinn alvitsku Skaparans? Fyrst ad mindadi manninn hann, Manns ástand gløggvast þeckja kann.

4. Vid hans forsjón, sem vídt umsér, Veldid sameinad gudligt er, Hans því bendíngu hlýda má Himni og jørdu sérhvad á.

5. Hvad gétur framar hug vorn stillt, Hvad betur hjartad gledi fyllt, Enn þad, ad eylíf vitum vér Vitska Guds nád og magtin er?

6. Hønum vorn felum hag og rád, Hans vørumst af oss brjóta nád, Ascetníng geymum ætíd þann, Ad óttast Gud og vona' á hann.

7. Ef vorir bregdast vinir hér, Vinur trúfastur Drottinn er, Ef dregur fyrir yndis-sól, Er hann vort ljós og besta skjól.

8. Ef háskinn kríngja um oss kann, Einka verndari þá er hann, Nær líkams veiki lýja má, Læknari bestur Gud er þá.

9. Ef daudinn ad oss dapur fer, Drottinn vort líf og kraptur er, Trygd hans ei bregdst, þó tvinnist neyd, Treystum hønum í lífi' og deyd.

10. Þannig vér endum þennann dag, Þér felum, Gud! vorn allann hag, Lát oss til æru lifa þér! Leid svo í dýrd, nær æfin þver!

## 4. Sálmur.

Lagid: Fadir vor! sem á himnum ert.

Ef morgundagsins regi vér Veikhuga kvídum, slíkt þá skér, Af því ad Kristí krafa sú: Krossinn bera med sannri trú, Og hans fótspora fylgja leid, Fellur oss þúngt um æfiskeid.

2. An fyrirhafnar ei þó mann Aflar fésjóds, né geymir hann; Og því skyldum vér undrast þá, Þó erfidt þyki farsæld ná? Edur er minni mæda vid Mannvondskunnar enn dygda sid?

3. Ef samanbera vildum vær Verdlaun þau góð, sem dygdin fær, Vid ánaud, kvøl og óró þá, Er glæpaþrællinn lída má, Sæum vér brátt, hvad betra er Braut mannkosta ad feta hér.

4. Þyki hérvistar þrautin straung, Þyki vegferdar mædan laung, Hugleidum hvílíkt kvalakíf Kostadi Jesú sál og líf, Ad hann oss feingi afrekad Eylífrar dýrdar sælustad.

5. O Jesú! lengur ecki hér Endurleyst børn þín skulum vér Um þad kvarta, ad þúng sé þraut, Þinna bodorda ad feta braut; Vér viljum gladir veginn þinn Vongódir þræda hvørt eitt sinn.

6. Oss skal þar eckért fæla frá, Farsæld himnanna stunda' ad ná; Vor hrygdar remma hvad er nú, Hjá þeirri beiskju', er affaupst þú, Øll þjáníng, fátækt, eymd og pín, Er lítilsverd hjá kvølum þín.

7. Hvad laung og straung sem heims er neyd, Hún linnir þó med vorum deyd; Hann oss fríar vid hrygd og grand, Heimleidir í vort fødurland; Umbunar strídid endad þá Endalaus rósemd himnum á.

## 5. Sálmur.

Lagid: Kom Andi heilagi!

Er þannig ástand manns Ámedan hjarir, Ad rósemd endar hans Opt fyrr enn varir.

2. Vareygdin vissust því Børn er mót hætt-um, Hana vér heimi í Helzt stunda ættum.

3. Heimur er audgur af Illum tálsnørum, Hvør þeim ei gaum ad gaf, Ginnist óvørum.

4. Hvad opt holds-fýsnin flá, Fegirnd, heims sæla, Vor hjørtu vareygd frá Villa og tæla.

5. Umsorg, er aldrei svaf, Omak, starfs-raunin, Orýsemd eina gaf J erfidislaunin.

6. Opt þaraf ángrumst vér, Ad Gud oss leidir Odruvís, enn þess hér Oskin vor beidir.

7. En þegar allt oss hjá Ad óskum geng-ur, Andligu efnin þá Ei rækjast lengur.

8. O! gjætum ad oss vér! Efin burtreykar, Hvikult vort hjartad er, Hægliga skeikar.

9. Verjumst heims vélum mót, Varliga før-um, Svo vorn ei festum fót J freistíngasnørum!

10. O Gud! oss ebl þú vel Illu hjásneida, Lát ei heims vondsku vél J villu' oss leida!

11. Fyrir þinn Son oss send Sálar heill

frída, Hættum burt vondum vend, Vel lát oss stríða!

12. En nær andstreymis kíf Vort enda hlýtur, Innleid oss í þad líf, Sem aldrei þrýtur!

## 6. Sálmur.

Lagid: Medan Jesús þad mæla var.

Vér kvørtum yfir þrávalt þeim Þreyngíngum, er oss sækja heim; En, er vor neyd svo þúng og þrá, Þad hún verdskuldi møglun þá? Gjæt-um þá þeirrar gledi vér, Sem Gud oss ein-att veitir hér, Og óforþénud þarmed er.

2. Hvørt minnumst vér, þá mædan slær, Med-brædra vorra, þeim ed nær Hørmúngin geng-ur, hér svo vid Hafa ad berjast lífs um mid: Fátækt, offsóknir, forakt, sótt, Og fegnir mundu kjørum skjótt Vid oss skipta og fagna fljótt?

3. Hvad er vor þjáníng heimi í, Hjá kval-rædi ad reikna því, Sem Krists postular lífs um leid Lidu? hvad þad hjá þeirri neyd, Er hann píndur á hørdum kross Hlaut ad lída, svo feingi oss Afrekad dýrdar eylíft hnoss?

4. Sú íllgjørd, er oss ángra kann, Enn-

þá sárara kvaldi hann; Þann bikar, sem á bergjum vér, Í botn hann súpa mátti hér; Hans ángist er oss ýfrid greid Upphvatníng, svo í hvørri neyd Anægdir setum lífsins leid.

5. Ef oss heimsækja fátækt ser, Frelsarinn hana reyndi hér; Lídum vér ossókn, last og neyd, Leid hann slíkt fram ad sínum deyd; Vína missir ef vill oss þjá, Vinirnir hønum snérust frá, Hans sál nær mest á huggun lá.

6. Betri kjara enn hafdi hann, Hvørninn syndarinn vænta kann? Þarfyrir lída þreytumst sízt, Því sorgin loks í gledi snýst; Finnist oss mædu lángsøm leid, Lítum hvad fagrann sigur beid Sjálfur Jesús í sínum deyd.

7. Þegar oss mædir þúngur kross, Þad skal, ó Drottinn! gledja oss, Ad vér vitum þín eylíf nád Eykur vort þol og gefur dád; Verkadu oss þinn vilja hjá, Vardveit þolleysis møgli frá, Og gef oss himna gledi fá!

## 7. Sálmur.

Lagid: Kom Skapari, heilagi Andi!

Hvørn þánka oss í hjartad inn Hugleidíng

þessi gefur ný: Máské eg nú í sídsta sinn Sæng mína leggist nídur í.,

2. Um þetta hyra eflaust ber, Oss þartil bendir náttúran; Allteins og blómstur erum vér, Er falla skjótt og visna kann.

3. Otal tilfelli eru víst, Sem æfi mannsins géta stytt; Med vissu sérhvør vorra sízt Veit þó, hvørt af þeim fær hann hitt.

4. Eitt spor misstígid, eitt ófall, Einn kaldur drykkur, neisti, ský, Gétur, þá sídsta kémur kall, Kastad oss dauda skautid í.

5. Enginn dags morgun mæla kann: Madur í dag þú andast sízt, Og eckért kvøld, ad eigi hann Aptur ad morgni lífid víst.

6. Enginn veit, hvørt hann vinum hjá Verdur, þá daudans heyrir kall, Hvørt ríkur, snaudur fellur frá, Med fleirum, eda einsamall.

7. Ef þessi kvøldbæn yrdi hér Ockar sídasta jørdu á; Erum vel búnir undir vér Ad kvedja heim og deya þá?

8. Vor Gud! oss alla uppvek þú, Ad vér skodum hvad valt er líf; Lát oss med bæn og blídri trú Befala oss í þína hlíf.

9. Máské nú sídarst hér í heim Hyra vini

oss audnist sjá, Þess fremur unna oss bér heim, Og gjæta skyldu rétt vid þá.

10. Máské þessa dags mæda vor Megi hin sídsta verda' í heim, Þess fúsari þau fetum spor, Og føgnum rauna endir þeim.

11. Nær sem Gud vill vort linni líf, Ljúkir vér førum heimi af, Vora sál felum hans í hlíf, Sem hana fyrri skóp og gaf.

## 8. Sálmur.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Vorrar náttúru veiki, Vottur er þad hún hvíl-ast þarf; Er þad manns eginleiki, Ad hann hvíist vid dagsins starf; Mædan fljótt Þolid þreytir, Þessu nótt Vel umbreytir, Nýann þrótt Næturhvíldin veitir.

2. En á himnum aldregi Endast sýslanir himneskar, Utvaldir þreytast eigi, Enginn vanmáttur merkist þar; Þrátt heims dvøl Þróar leida, Þar ei bøl Frid kann eyda, Og eingin kvøl Anægjunni sneyda.

3. Heimsins náttmyrkur meiga Menn leida villuslódir á, En himinbúar eiga Aldrei ad

reyna hættu þá. Guds nálægd Ljós þeim géfur, Ljóma nægd Þá umvefur, Yndisfrægd Engann skort þar hefur.

4. Nær um jørd nóttin breidist, Náttúru-prýdin hverfur øll, En ljóminn aldrei eydist Í himins paradísar høll; Þar má fá Fremd marg-falda, Finna' og sjá Guds útvalda, Gudi hjá Glada' um aldir alda.

5. Opt vill ugglesysis myrkur Á jørdu blinda vora sál, Innri vor eydist styrkur, Illar ginn-íngar brugga tál; En deyfd frá Frelstur andi Føgru á Dýrdarlandi Krýnist þá Krapti' í sælustandi.

6. Heimsins náttmyrkur mála Mynd daud-ans oss nær sofum á, Og sýna' ad vor sála Í leiguhreysi byggir þá; En í bygd Eingla frem-ur Engin hrygd Daudans kémur, Sótt og sýgd Sér þar stad ei nemur.

7. Engin nótt, óró, mæda, Né ímynd daudans nein þar sést, Uppfylling allra gjæda Útvalda Drottins gledur best; Í þad hús Von-in vendi, Vor sál fús, Svo þar lendi, Einn Jesús Oss þar nád tilsendi!

# 9. Sálmur.

Lagid: Sá frjáls vid lögmál fæddur er.

Med oss tilgángur Guds er sá, Vér gjætum hlýdt hans vilja. Og medøl valid þartil þá Þau, sem ad best má skilja.

2. En hvad oftídum hegdun manns, Er heita dygdug ætti, Skeikar af vilja Skaparans, Skyldt er hvør vel adgjætti.

3. Hvad opt veljum vér hluti þá, Sem helzt þó fordast ættum; En høfum andstygd hinum á, Hvørja þó elska mættum!

4. Fyrir metord og fjársafn þrátt Frá oss Guds ótta rydjum, Eru slíkt Gudir, opt sem dátt Adhyllumst og tilbidjum.

5. O hvad rád Guds er ráđum manns Raunar ólíkt í flestu! Rád svo vel framgengt verdi hans, Velur hann medøl bestu.

6. Hann lætur þrávalt þurrann staf Þéttgróin blómstur færa, Hann leidir strauma hellu af, Sem hóp manns endurnæra.

7. Hans speki skín í allri átt! Á haustin blóm afdetta, Ad vori komnu aptur brátt Ylmandi, ný uppspretta.

8. O! hvad madur, sá mannvit kaus, Margt sér á førnum vegi! Þar þó heimskínginn þánkalaus Þessa neins gjætir eigi.

9. Hvílíkann vísdóm má hvør mann Merkja og yfirvega, Á tilfellum, sem hitta hann, Og hnegjast undarliga.

10. Jóseph selst, svo hann leggi lid Lýdum í húngri nauda; Hafsbotn Israels fólki frid Fær, en Ægyptskum dauda.

11. O Gud! þitt verk og vitska ber Vottinn hátignarinnar; Vaki í sálum vorum hér Vis minníng stjórnar þinnar!

12. Lát oss þad skilja vel ávalt, Og vid þad trúna festa: Ad hvad þú gjørir, gott er allt, Og greidist oss til besta.

## 10. Sálmur.

Lagid: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Ottinn á Drottni innrætt fær Anægju og traust þér, sál mín kjær! Vid þann sannleika helzt þér haldt: Herrann í miskun gjørir allt; Ef lífs þig mædir hrygdin hørd, Hugadu þá um þessa

jørd, Algjørda rósemd ecki hér Akvardad hefir Drottinn þér.

2. Spyr þú Gud ecki: hví ad hann Hag þinn myndadi þvílíkann? Skaparanum því skyldt ei er Skil fyrir verk sín standa þér; Lát þad nægja: hann ljúfann átt, Líknsaman Fødur dag og nátt; Þúsundfløld gjædska þeink ad hans Packlæti krefur syndugs manns.

3. Ef hag álitur æsi nú Ofullkomnari, enn vildir þú, Hyra þá til, í himnarann Huggun ædri þér geymir hann; Hann sem frækornid frjófgar ørt, Fleygann orm gétur moldar gjørt: Mun hann ei unna manni ad ná Meiri fullkomnan sídar þá?

4. Hann markar stjørnum lagda leid, Leka afmældi sólarskeid, Allt þad skapada yfrid nett I eina kédju tengdi rétt; Rádgódur þeckir raunir manns, Reiddu þig því á dásemd hans; Øll Guds rádstøfun yfir þér Æ til farsældar stílud er.

5. Allann Guds tilgáng ecki þú I þessum heimi skilur nú, En hans forsjónar áform hér Eylífdin gløggvast sýnir þér; Dæmdu varliga um Drottins rád, Dýra hans nægja lát

þér náð; Hann oss trú rétta haldi við, Himnesrann síðan gefi frið!

## 11. Sálmur.

Lagið: Syrgjum vér ei sáluga bræður.

O, hvað ástand manns í heims mæðum Mismunar frá eylífðar gjæðum; Um þann sannleik sannfærðir heitum; Samt þess æðra minna vér leitum.

2. Víst er oss að vér burtu líðum; Velkjumst þó í umbrotum tíðum, Einsog engin eylífð til væri, Og oss jafnan lifa hér bæri.

3. Þessu veldur: það vér án vafa Þeinkjum lángt bil enn fram til grafar, Ímynd fylgir óskin sú nærri, Að eylífð og dómur sé fjærri.

4. Ungdóms blómstur, heilbrygðis hagur Hugann villa, þar þó hvør dagur Nær og nær oss flytur á foldu Følnan vorri og rotnan í moldu.

5. Óteljandi tíma vorn slytta Tilfellin, sem gjøra oss hitta; Einnig svefn og ydjulaus vaka Æris part af lífinu taka.

6. Hvxum til þess: hérvistin líður; Hugleið-

um: vor enlífdin bíður; Guðrækuir því vort líf hér vøndum, Vor er dauði snart fyrir høndum.

7. O Guð! virðstu oss það innræta, Að vér kynnum þessa vel gjæta, Heim lát ei né hag mæðu-lífsins Hindra oss að keppa til lífsins.

8. Sálu vora sjón láttu festa Á sælu dýrðar, er ei mun bresta, Kappsamir og fúsir svo setum Feril dygða eins og best getum.

9. Loksins þegar linnir heims mæðum, Líf í sælu gef oss á hæðum, Þar í friðar gnægðum fullglaðir Løfgum vér þig, ástríki Faðir!

## 12. Sálmur.

Lagið: Mildi Jesú! eg minnist nú.

Skír stjórnar merki Skaparans Skoðast á hvørjum degi, Blind mega augu heita hans Hvør þau-meðkénnir eigi; Guð fyrir øllu sjálfur sér, Satt hans forsjónar merki ber Hvørt strá á vorum vegi.

2. En mannsins líf þó æðstu ber Yfirburði, þess sjáum; Í augum Drottins dýrt það er,

Daglig þess merki sáum; Hans verndar forsjón vegu manns; Veitir og ørlát gjædskan hans Allt gott, hvørs njóta náum.

3. Hvør einn má segja: hann mitt líf Hér leidir, verndar, nærir, Forléti mig hans fødurhlíf, Forgenginn strax eg væri; Sérhvør vidaukl æst þá Yrdi mér straff, ef Guds forsjá Mig ei á ørmum bæri.

4. Mig øll náttúran minnir á Míns Guds umsjón at trúa; Eg gledst, af því mér audnast má Undir hans veldi búa; Milliónа líf, eg mørg þúsund, Menn, dýr, fugla og orma' í grund, Gud fædir þenna grúa.

5. Mér er stór náð: eg má hans á Mátt og hjálp traustid setja; Ad hønd hans styttast ecki má Upp skal von mína hvetja; Hann veit nóg ráð ad hjálpa mér, Hønum þjóna og trúa hér Eg læt mig eckért letja.

6. Hann er alvitur, hann því sér Hjálp nær mig vantar sína; Hann er réttlátur, hann því mér Hjartans trygd launar mína; Hann er eylífur, hann því ráð Hefir jafnan ad veita náð, Eins kann hans ást ei dvína.

7. Lof sé þér, Gud! sem létst oss sjá Likn

þína þúsundfalda; Geymi oss dygda gøtu á Guddómshønd þín alvalda, Svo í hlýdninni þjónum þér, Og þín børn heitum allir vér Nú og um aldir alda!

## 13. Sálmur.

Lagid: Fadir á himna hæd.

Vart finnst svo vondur mann Velgjørd ei hræri þann, Hún mállaus dýrin hvetur Til hlýdni, og mýkt gétur.

2. En synda þrællinn þver Þó lætur Guds ei sér Velgjørdir, né vidleitni, Venda frá illri breytni.

3. Hann þiggur hønum af Hans næring, sem hann gaf: Jørd, sól, ljós, gnóttir gjæda, Sem gledja hann og fæda.

4. Þó er svo hreckvís hann Ad hata Gjafarann, Og lætur líku hans eigi Sig leida' af glæpa vegi.

5. O sál adgjættu mín! Er hér ei lýsing þín? Hefir Guds gjædskan blída Gjørt þig fúsari ad hlýda?

6. Vegur og verk þín hér Vitna á móti

þér, Náð Guðs, sem gott allt géfur, Með glæp þú launað hefur.

7. Hér mørg þér heill adsnýr, Hann þér og dýrð tilbýr, Packlæti' og elsku þína Þú vill hann skulir sýna.

8. Náð Guðs, sem ørlát er, Aldrei því launa hér, Með hverúð, þú svo hreppir Þúngt straff, en ást hans sleppir.

9. Æ Drottinn! oss forlát, Að vér með litlri gát Velgjørðir þínar þáðum, Og þitt ráð tídt forsmáðum.

10. Fyrir vanþøck, sem vér Veitum opt, Drottinn! þér, Ei lát uppþorna og dvína Ørlætis strauma þína.

11. Packlátt oss géfðu géð, Guðrækna hlýðni með, Svo vér þíns vilja leitum, Og verðugir sælu heitum!

## 14. Sálmur.

Lagið: Lífsreglur hollar heyri menn.

O, hvað í blindni eg hef þrátt Anað fram, Drottinn minn! Og undan girnda abli mátt Andvarpa margt eitt sinn; Aðgjæta hag minn

hefd' eg átt Og helgann vilja þinn, En holdsins gleymdi heimska brátt, Háska þeim nú sem finn.

2. Þó lucku finda eg litla af Lástanna æfing' hér, Opt svo skynsemin sálar svaf, Samt hennar vænti eg mér; Medlætis heims, er hættu gaf, Hjartad mitt æskti sér, Svo nær í botnlaust hrygdarhaf Hafd' eg steypt, sál mín! þér:

3. O, ad kvølds þessa ørfi stund Upp til þess hug og sál, Ad yfirgéfa á alla lund Illgjørda sporin hál! Fyrr enn eg nætur festi blund Flýa skal heimsins tál; Herra! þinn nádar hreppa fund Hjartanu þykir mál.

4. Lát mig adgjæta': ad øll þín nád, Øll heill og velferd mín, Flýtur þaraf, ad eg med dád Øll geymi bodin þín, En lasta eydir limsku rád Lucku og bruggar pín, Og heims farsældin hættu sjád Hverfur og brádum dvín.

5. En þeim gudhrædda gengur flést Til gjæfu ár og síd, Sem tré á vatnabøckum best Blómgast hann sína tíd; Hønd Guds því yfir hønum sést, Hans varir minníng fríd, Launin bygdanna fær sér fest, Fullsæll, nær endar stríd.

6. O Gud! nær hér ad gjøri eg stilt, Gledst

eg með sjálfum mér; Lotníng' heilagri hjart-að fyllt Heita þá óst framber: Lát mig svo vera sem þú vilt, Sjálfur mig styrktu hér, Að mig ei fái vondskan villt, Né vélað burt frá þér.

7. En nær fallhættum ferli á Fótur minn rasa kann, Vorkéndu mínum veikleik þá, Viðréttu aptur hann; Mitt brothætt dupt í mildi' á sjá, Meðan dvelst heims í rann, Lát svo kórónu lífsins fá, Ljósinu umgyrðtann!

## 15. Sálmur.

Lagið: Jesú! þín minníng mjøg sæt er.

Nær sól og allann himins her Hér sit eg fyrir augum mér, Hugsa eg: stór er Herra sá.

6. Sannmikil furda sýnist mér, Ad svo stór Herra sem hann er, Minnast vill duptsins moldar þá, Mannsins syndugа jørdu á.

7. Enn meiri furdu eykur mér, Ad hann lét Son sinn pínast hér; Þaraf sé eg ad sálin manns Sé dýr metin í augsýn hans.

8. O Gud! nær fyrir augum mín Eg sé dásemdar verkin þín, Mig lát undireins minnast á Minn breiskleika, og blygdast þá.

9. Þegar mitt hjarta hrokar sér, Hátign þína þá sýn þú mér, Nær traustid veiklast, veit mér þá Vel þíns almættis jafnan gá!

10. Mín nær synd freistar, mér þá sýn, Maktin hvad háleit, Gud! er þín; Kærleiki minn ef kólnar, þá, Kærleiks-verk þín mig minntu á.

11. Hvad eg sé jørd og himni á, Hvetji mig lotníng þér ad tjá, Svo eg tilreidi sjálfan mig, Ad sjá í dýrd um eylífd þig.

## 16. Sálmur.

Lagid: Alteins og blómstrid eina.

Hvad er manns líf í heimi? Haf eitt þad kallast má; Er sem á øldum sveimi Vort

ástand til og frá; Þó hvíldar þrátt oss leitum, Þessi ei stødug finnst; Nýtt hlaup þrálega þreytum, Þegar oss varir minst.

2. Sá heimur, hvørn ad sáum, Híngad nær fæddumst vér, Er hartnær, ef þess gáum, Ecki til fremur hér; Nýar persónur prýda Plátsid skodunar enn, Og búast burt ad lída Brádlega aptur senn.

3. Nær eitt fæst, annad þrýtur, Ei margt hér leingi stód; Ef audlegd ad oss flýtur, Opt þverrar heilsan gód; Ef lærdóm ødlast gétum, Ydnina hindrar starf; Séum vér mjøg í metum, Mann-øfund hrædast þarf.

4. Á vøltum allt er fæti, Umskiptist rétt á mis: Happ, kvídi, harmur, kæti, Hatur, ást, lucka, slis, Von, ótti, vellyst, mæda; Valla því treysta ber Hagsældum heimsins gæda; Hverfult allt stundlegt er.

5. Fyrst allt í heimi hættum Hégóminn tómur er, Vér hann ei elska ættum, Og med því fríum vér Oss frá andstreymi hørdu, En hófi brúkum med, Hvad oss er hér á jørdu Til happs og nota léd.

6. Heims gæda hverfull flótti Hjartad vort

þá ei fær Sturlad, né annar ótti, Ánægdir lifum vær; Vér horfum upp til hæda, Hvar einginn finnast kann Umbreyting, ótti, mæda, Oss géf, Gud! bústad þann!

## 17. Sálmur.

Lagid: Herra Gud í himnaríki!

Mig til ad losa mest vid heim, Medal eg bezta þecki, Ad eg feli mig Fødur þeim, Hvørs forsjón sefur ecki.

2. Hans mér útryckja høndin kann Ur háska, nær mig vefur, Veitt gétur líka hvad eitt hann, Hvørs lífsins þørfin krefur.

3. Jeg tapa aungvu, traust þó á Trygd hans og miskun festi; Mér gétur hjálpad mildur sá, Manna hjálp øll þó bresti.

4. J von ókvídinn vilja hans Wil eg mig undirkasta; Hans blessud stjórn um hagi manns Hefir tilgáng vísasta.

5. Þó vart eg þecki veginn þann, Sem vill hann mig hér leida, Ánægdur feta eg skal hann, Og á hans nád mig reida.

6. O Gud! því skyldi ei ønd mín sig Af-

henda þér hvørt sinni; Hvad þarf eg óttast helzt, ef mig Hefir í umsjón þinni.

7. Á medan sjálfur meinti eg Mínum ad ráda kjørum, Fór eg þrávalt á villu veg, Vard hætt vid slisa-førum.

8. O! hvørsu framar eg verd þá Ohultur, nær þú rædur, Vodi einginn lífs vegum á Verdur ønd minni skædur.

9. Víl og ótta, sem veikir mig, Vil eg því gladur sleppa, Og treysta, Drottinn! uppá þig! Áfram svo veginn keppa.

10. Í lotníng djúpri lít eg hér Leidslu forsjónar þinnar, Og fel ánægdur einum þér Öll kjør vegferdar minnar.

## 18. Sálmur.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Skyldt er lof þeim Gudi gjalda, Góð hvørs hønd mig leiddi hér, Og ljós dagsins lét margfalda Lífsins hagsæld færa mér; Því þó æfin hér í heim Hafi jafnan rauna-keim; Samt má dagur serhvør heita Sérleg blessan Guds háleita.

2. Hvad eru þessa heimsins gædi? Hvad velgeingni makt og féd? Ei þaü sálar olla nædi, Ef mig vantar rósamt géd; Sek ef klagar samvizkan, Sízt farsældar nýtur mann; Af því hefndin ógudlega Osskækir á marga vega.

3. Mér skulu gædin minnstu nægja, Minn sem Drottinn senda vill, Kjørum mædu kann þad hægja, Klagi mig ei syndin ill; Vissa mín um vingan hans, Von um sælu himna ranns, Géfur mér þá gledi nýta, Sem góz vid heims eg vil ei býta.

4. Skort þó reyni, skirt má kæta, Ad skal eg nægtir sídar fá; Þó eg forsmán megi mæta, Mig von heidurs gledur þá; Þó mig mæda þjái hørd, Þessi borgast lífs á jørd; Veg Guds hulinn þó ei þecki, Þá dylst hann mér sídar ecki.

5. Eingin heims því mæda megnar Mína ad skérda von og trú; Eg hefi saman allar vegnar Eymdir lífs og raunir nú, Mót ró-semi hjartans hér, Hvørja dygdin géfur mér; Og finn víst hún vorum mædum Vegur meira, full af gædum.

6. Þér, minn Gud! eg þacka af hjarta Þessa tíd, er veittir mér; Lát mig daga-ljósid

hjarta Lofs til brúka jafnan þér, Líka hugsa hérum nú, Hvartil lífid gafst mér þú, Eg svo vilja eptir þínum Eydi stundum lífsins mínum.

## 19. Sálmur.

Lagid: Jesus Kristur á krossi var.

Mína skyldu ad minnast á Mér ber sem fleirum, og þarhjá Þá hindrun læra ad þeckja, Sem mig dygdanna ferli frá Fælir og opt vill bleckja.

2. Þessi hindrun mitt hjartad er, Hvørs girnd ad sigra erfidt hér Veitir veikleika mínum; Af því þad stóran breiskleik ber Blindt mjøg í óskum sínum

3. Fullfærann opt eg met minn mátt, Mínar girndir ad sigra brátt; En fyrr enn ad eg gætti, Oflida borinn eg vard þrátt Af þeirra vr[illegible]tti.

[illegible] eg sama óvin sá Aleingdar mér, [illegible] þá Vinna med vareygd sanna; [illegible] fastur lá Í fjøtrum ginn-

[illegible]st eg hérvid, Af því

minn lífs og sálar frid Misst hefdi' eg mér úr høndum, Hefdi ei Jesús lagt mér lid, Og leyst úr daudans bøndum.

6. Þenna hjálprædis høfund minn Heidra vil eg, því skyldt þad finn, En þó strid kosta eigi; Eg veit mér styrk hann sendir sinn, Ad sigur ødlast megi.

7. Eg hefi mikid unnid þá, Er eg minn veikleik þeckja má, Og Guds hjálp girnist blída; Mig hans álita mun ásjá, Mér gefa krapt ad strída.

8. Jesús sjálfur til freistni fann, Freistínga máttinn þeckir hann, Og stridsins ørdugleika; Vorkénna mun hann veikleikann, Og vægja nær eg skeika.

9. Kéndu ad þeckja, minn Gud! mér Minn veikleika, en treysta þér, Og vissu ødlast sanna: Ad vís þín hjálp mér veikum er I voda freist-inganna.

10. Hjálp mér ad strída heims um leid, Hjálp mér ad sigra alla neyd, Og hnossi eptir képpa; Hjálp mér, þá lídur lífsins skeid, Lífs-ins kórónu hreppa.

# 20. Sálmur.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Vort líf er dásemd vors Guds hærsta, Vor tíd er merki gæzku hans; En athøfn vor er ógyld nærsta, Eckért gott býr í holdi manns; Svo opt hans bod ei héldum hér, Høfum forbrotid lífid vér.

2. Er ecki tíminn, oss Gud géfur, Ometanleg ein velgjørd þá? O! hvad hann dregid undan hefur Oss í fordæmíng nidur slá, En léd oss til ad ydrast frest, Aptur svo vøndum lífid bezt!

3. Hvílíkt gáleysi er: ad eyda Til íllra glæpa sinni tíd, Og von sig sjálfann sælu sneida, Sem er Guds barna umbun fríd; O! sú fásinna er svell og stíf, Ad setja í vogun eylíft líf.

4. Hverr dagur af oss metast mætti Miklu dýrari enn gimsteinn klár, Og hvør tøpud stund teljast ætti Tjón stærra, enn missir gulls og fjár; En vor ástundan ár og síd Er: mest ad spilla vorri tíd.

5. Skulum vér lífi leingur eyda, Lífs þó

adgæta orsøk sízt? Eigum vér sjálfa oss ad sneida Allri nytsemi tímans víst? A ecki þessi enn nú stund Ad vekja vora dofnu lund?

6. O! vek oss, Gud! svo ecki leidum Yfir oss snøggva fordæmíng; Veit hjálp, ad vel med vareygd sneidum Hjá villu, sem er allt í kríng, Og búumst vid: ad þá og þá Þú munir kalla oss hér frá.

7. Lát oss varbúna, ó Gud! eigi Innkallast fyrir dóminn þinn; En géf á hvørjum æfidegi Astundum vísdóm þann hvørt sinn: Ad lifa rétt, sem ord þitt tér, Utfør góda svo fáum vér.

## 21. Sálmur.

Lagid: Géf þínni Kristni gódan frid.

Ad morgni dags þá augum vér Uppljúkum til ad vaka, Til þeirrar stundar hugsum hér, Nær helid vill oss blaka, Og þau í dauda daprast taka.

2. Sá úngi hugsar: því med þeim Þánka skal eg mig hryggja? Eg er nýkominn inn í

heim; En, madur! gjør ad hyggja: Margúr úngur lík má liggja.

3. Af því eg ekkért augnablik Ohultur má hér heita, Og hvørt tilfelli, hvørt atvik, Helfør mér kann ad veita; Skal eg með vareygd beztu breyta.

4. Fyrst einginn tími fer svo hjá, (Sem finnst á heimsins kjørum), A hvørjum hópur manna' ei má Mæta daudans adførum; Líka margur lézt óvørum.

5. Og kannské þessu kvøldi á Kunni mørg þúsund hjara, Er fá ei nærstu sól ad sjá, Svo fljótt menn burtu fara; Þarfyrir tøkum vel oss vara!

6. Máské ad bænir helgar hér Holdum í sídstà sinni, Og líksaung syngjum vorn nú vér: Vaki oss því í minni Hugsun daudans, úti' og inni.

7. Látum oss stunda æ þar á: Svo undirbúnir þreya, Eins og vér vildum vera þá, Nær verdum burt ad deya, Og stríd daudans eigum heya.

8. Gud! géf þú daudans minníng mér Mezt þinn óttann innræti, Svo dag hvørn

muni: ad dupt eg er, Dæma forfedra gæti, Líka gudrækinn líf mitt bæti.

9. Æ! lát mig þeinkja um það mezt: Hvað á eg fyrir höndum; En nær helsóttin líf fær lest, Leys mig af dauðans böndum, Og flyt sál inn að friðar löndum!

## 22. Sálmur.

Lagið: Ovinnanleg borg er vor Gud.

I nýa reynslu lífs um leid Leidir oss sér-hvør dagur; Hugsa því, sál mín! nýrri neyd Nær sem þinn fyllist hagur: Gud sjálfur alvís er, Um eckért skyldugur þér, Skyldi' hann þér skamta nú Skérf, sem forþénar þú, Hann yrdi helzt ófagur.

2. Taktu med rósemd þá vid því, Þér sem Drottinn vill senda; Hans leika manns kjør hendi í, Hann kann sorg byrja' og enda; Bú þig mót bøli vel, Ber það med ánægt þel; Gleym því ei gráts á tíd: Gledin þín bídur fríd, Það skal burt víli venda.

3. Teldu, hvørt fleiri eru ei Yndis enn hrygd-ar dagar; Sjálfs Guds ádryckju seig ei nei,

Einum, hann veit, hvad hägar; Kjör þín vid brædra ber, Bezt gæt þess ei þú sér: Hvad hollast heita má, Hefir Gud stjórn þar á, Hann grát til gledi lagar.

4. Auka skal slíkur þánki þér Þolgjædi í øllum mædum, En þolinmædin vondu ver, Varnar ófridi skjædum; Mótkast þó komi ad, Kann hún létt gjøra þad; Hrædst því ei heims um lád Hér nema Guds ónád; Hún veldur mezt vandrædum.

5. Hvad er hrygd, fátækt, heims forakt? Hvad er allt sem vér lídum? Nær vort í jørdu lík er lagt, Linnir andstreymis hrídum; Í heimi ytst og innst Eckért varanlegt finnst, Himna dýrd, hvørja vér Hér þráum, stødug er, Med sælu-føgnud frídum.

## 23. Sálmur.

Lagid: Dagur er, dýrka ber 2c.

Hvørn dag ber, Hugsum vér: Holds veik-leiki Þrátt orsakar Oss og bakar Eymd lífs, Vor býr því Andi í Einu hreisi, Sem ad fljótt Fá kann sótt, Fall, lífleysi.

2. Svo opt vér Sedjumst hér, Svo opt þreytum Vorn líkama, Edur ama Adslær, Er oss ként Og tilbent: Ad vér hreppum Deyd um síd, Dauds ad tíd Dag hvørn képpum.

3. Sér med hrad Sálin ad Sjnn bústadur Hrørnar, mædist, Líkt sem lædist Líf frá; Héraf rís Hrygdin vís, Hug sem mædir, Daudi manns Minni hans Mjøg því hrædir.

4. O! hvad vér Værum hér Vesslar sképnur, Ef ei gleddi, Og sinnid seddi, Sú von: Ad mót deyd, Allri neyd, Og lífs flótta, Gétum mézt Glatt oss bezt Guds af ótta.

5. Hann oss leid, Lífs um skeid, Leidir sanna, Vissu géfur Hann: ad hefur Hønd Guds Fegra stand, Fødurland, Frídt á hædum Tilreidt, þá Frelsumst frá Fári' og mædum.

6. Holdsins mót Hrørnun fljót, Huggun líka Guds er óttinn; Fær á flótta Fælt sá Sorg og neyd, Svo um leid Sendir trú þá: Ad vort hold, Fært úr fold, Forklárast á.

7. Fullvissann Sú med sann Sinnis rósemd Upp hér vekur, Angur rekur Oss frá; Gégnum deyd Liggur leid Loks í fridinn, Þégar stríd, Þrauta-tíd Þessi' er lidin.

8. Stundum þá, Eins og á, Otta Guds
vel! Drottinn bidjum, Dygdir ydjum Dag
hvørn; Gud, vor hlíf! Geym vort líf, Géf
þinn anda: Ad lærum vér, Svo líki þér, Lifn-
ad vanda!

## 24. Sálmur.

Lagid: Lof sé þér, Gud! fyrir lidinn dag.

Vér óskum oss og adrir menn Yndællra lífs-
ins kjøra, Gætum þó lítid ad því enn, Hvørt
oss þau betri gjøra; Eda, mun hollra høgum
manns, Ad hafa stórt medlæti, Og krýnast
kæti, Enn þó ad vitji hrygdin háns, Og hørm-
ung stundum græti?

2. Hvørnig færi, ef heims sælan Hjartad
frá Gudi leiddi? Eda velgeingnin veikann mann
Vingan Guds allri sneiddi? Og hann svo félli
sjálfur í Sálar fordjørfun óda, Sem bøl kann
bjóda, En sálin missti útaf því Alla lyst til
hins góda.

3. Hvørnig færi ef hjartad téd Heims gæd-
in drambsamt gjørdu, Og fylltu sinni mannsins
med Miskunarleysi hørdu? Því þess farsælli

eimm mann er, Og meiri nægta blída Honum má hlýda, Þess fleiri girndir hefur hér Hann líka vid ad strída.

4. Hvad kann þá veita vorum hug Vær-eygd á lucku-tídum? Hvad er sem gefur dád og dug I døprum mótgángs hrídum? Ótti Drottins þad dýrstur er, Djørfúng og þol hann færir, Þá sorgin særir, Med sannri huggun sífeldt hér Sálina endurnærir.

5. O, Drottinn! gef oss ótta þann, Anægd-ir svo vér lídum, Hvad eitt sem mæta hér oss kann, Holds girndum móti strídum; Þinn í oss vaki kraptur klár, Kenni æ rétt ad breyta, Og loss þíns leita, Svo oss hlotnist um eylíf ár Utvalin børn þín heita.

## 25. Sálmur.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Um hvad skal optar hugsa mann, Heldur enn Jesú kærleik þann, Sem oss sáluhjálp gefur? Er þad ei ædsta von: ad vér Vitum ódaud-leg sál vor er, Og vissu hins lífs hefur?

2. Hvad framar sinnid hræra má, Enn

hugsa um yndis-rósemd þá, Sem geymd er sálum vorum? Mun nockur lucka manns í heim Mega samjafnast gæðum þeim, Sem vér oss vænta þorum?

3. Hvad gétur heimsins ginníng nú, Og girnd holds sigrad meir enn sú Hugsun: ad hjálpast gétum? Æ! hvad sá þánki kveikja kann Kærleik í oss og vilja þann, Ad dygda feril fetum.

4. Þá og bezt líka þeckjum vér, Þacklæti hvílíkt Gudi ber, Sem Jesum senda vildi, Og allskyns blessun einnig med, Oss, hans frid-keypta, blessa réd, Eintómri af ást og mildi.

5. Ást Jesú fáum og þá séd, Er oss ei leysti gulli med, Heldur heilagri pínu: Og fyrir dauda féck oss líf, Fyllir krapti og veitir hlíf, Ad þóknast þeli sínu.

6. Þad er sú ydja, sem oss mezt Sameinar vorum Jesú bezt, Og lífsins veginn leidir; Þad er vor lucka' ef leidt oss fær, Ljóssins andi, því nær og nær, Ferli Krists gáng vorn greidir.

7. O helgi Andi! hug vorn fest Vid hluti slíka, ad vér mezt Synda-girnd allri eydum; Hjálp oss ad þeckja' og hugsa á, Hvad til

vors fridar þéna má, Svo hjá heims svikum sneidum.

8. Eins og vor hjørtu nálgast nú Náðugann Guð, svo veit oss, þú, Hønum þau helgist einum; Hann óttist, stundi, elski hér, Uppá það reyna mættum vér Ást hans í øllum greinum.

## 26. Sálmur.

Lagid: Jóseph af Arimathiá.

Þessi dagur, sem Drottinn mig Dýr lét lifa, er mér nýtt stig. Fram ad eylífd, hvar ønd mín kær Uppfylling sinnar girndar fær.

2. O! hvad þrátt leidist heimsins bid? Hvad opt lángar mig í þann frid? En það mig hugga aptur kann, Eg nálgäst jafnan føgnud þann.

3. Tímana þrátt eg tel um sinn, Til þess eg nálgast Jesum minn; Æ! það mig gledja ávalt skal, Ad ódum mínkar þeirra tal.

4. Morgundagurinn flutt mig fær Frelsis takmarki enn þá nær; Þannig smástyttist þessi tíd, Þartil mig gledur eylísd frid.

5. Hví vilt því, sál mín! hryggjast nú, Harma-daga nær væntir þú? Þeir líða brátt, en ljá þér bið Líka að búast eylífð við.

6. Lof sé Gudi, sem lénti mér Lífs þess von, sem á eptir fer; Gladur skal eg þann gánga stíg, Sem gjørir þángað leiða mig.

7. Láttu, Gud! vaka í minni mér Mína skyldu, sem vakta ber; Heimsins elsku mér forða frá, Farsæld himna, géf, stundi' eg á!

8. Ødrum að hjálpa ydn sé mín, Oviu forláta bresti sín, Því að réttkristinn einn sá er, Sem illt með góðu launar hér.

9. Jesu Krists géfðu merkjum mér Með trú að fylgja svosem ber; I sorg og gleði sannleiks-gjarn, Svo eg heiti Guds óskabarn.

10. Lát á mér sannast sjálfur þú, Að sønn guðrækni, von og trú, Sínum elskendum rétt í raun Ríkugleg géfur verkalaun.

## 27. Sálmur.

Lagið: Adams barn! synd þín svo var stór.

Dagurinn, sem nú endtur er, Augljós sannfæring skyldi mér, Um Guds míns gæzku

mesta; Þegar eg renni þaunkum á Það umliðna, hvað sé eg þá? Föður-forsorgun bezta; Önn hann fyrir mér alla bar, Áður enn það eg skaptur var, Híngaðtil líka leiddt; Hvað má ei hrærast hjartað mitt, Hjálpráð, Guð! nær eg skoða þitt, Sem mér þín miskun greiddi!

2. Hértil hefir þú hjálpað mér, Hví skyldi eg ekki treysta þér Framvegis, Faðirinn mildi? Öll mín tilfelli' og efni vönd Af þinni stjórnast föðurhönd, Hún mína velferð vildi; Skyldi eg með mögli þorá þá Þínum skamti mér hrinda frá, Og við þinn vilja' ei kannast? Er það ei blessuð ástin þín, Sem alla velferð hefir mín Uthlutað, mælt og annast?

3. Þú hefir ætíð elskað mig, Alla því hluti fyrir þig Yfirgéfa eg ætti; Avalt eg reyndi ástsemd þín, Er þá ei skyldt við bræður mín Kærleika góðs eg gætti? Syndir forléztu miklar mér, Mínum óvin eg, skyldt því er, Af hjarta uppgjöf veiti; Ótal velgjörðir gafst mér þú, Guð minn! hvað skyldugt er eg nú, Barn þitt, hlýðugt þér, heita.

4. Óþakklæti mér forða frá, Fyll mig von

þeirri: ad mig á Viljir enn mildur minnast; Þær skyldur, sem þú settir mér Sjalfum til gagns, en dýrdar þér, Lát mér léttbærar finnast; Ef eg þér hlýdi, hérvist mín Heitir þá reisa inn til þín, Í sælu-vist útvaldra; Þar mun eg gløggvast þína nád Þeckja, og prísa allt þitt rád, Minn Gud! um aldir alda.

## 28. Sálmur.

Lagid: Ølbúngar Júda annars dags.

Séti eg þócknast Gudi hér, Gladur þá eymd og hrygd mig skér; Eg veit ad linnir ángurs tíd Og allt heims strid; Á himnum bídur farsæld frid.

2. Gud hefir meira gjørt fyri mig, Svo gjæti hann teingt mig bezt vid sig, Mørgum kurtruddi hættum hann, Og hjálpa vann, Ad gjøra veg minn greidfærann.

3. Hans vísdóms andi vakt mig féck, Þá villustigu heims eg géck; Þó Guds eg ecki þeckti rád, Þad er hans nád, Af hvørri gott allt eg hefi þád.

4. Allar bendíngar eru hér Af Gudi til

hins bezta mér, Min fæding, eign, lán, maða og neyð, Eru meðøl greið, Að beina mér til lífsins leið.

5. Tilhneiging mína temja vann Með tilfelli þægu stundum hann; Líka góð dæmi gáfust mér, Svo gjæti' eg hér Peinkt um: hvørnig mér breyta ber.

6. Samvizku stundum svæfða réð Sambrædra fljótum dauða með Uppvekja, svo mín gjørði gá, Og geingi frá Villustigum, sem var eg á.

7. En hefur Guð þá mildur minn Hjá mér æ feingið tilgáng sinn? Hefi eg laðast hønum að, Og hugleidt það: Hvað mér byrjaði' í hvørjum stað?

8. O Guð! þú þeckir allt líf mitt, Opt hef eg forsmáð ráðið þitt, Sack þó ei døm í veikann vid, Mér veittu lið: Guðrækni stunda góðan sið!

9. Héreptir géf mér hlýðið géð, Hrær mig velgjørðum þínum með; Leið mig svo, þegar líf mitt þver, Í líf hjá þér, Sem Jesús Kristur keypti mér.

## 29. Sálmur.

Lagid: Gædskurikasti græðari minn!

Af því stutt mid er tímans tært, Traudt gét eg hann í nýt mér færst, Edur adgætt, sem bæri; Ætti' eg enn þúsund árin hér Olifud, þá, hvad lidid er, Alhægt uppbæta væri, En sá Eg má Æfi minnar Árin finna, Aungvu glata Má eg, því annars í raunir rata.

2. Ef allir dagar dragast frá, Sem daglegt heimta líkams stjá, Hvad vill þá eptir verda? Sárlítill partur, sem eg þrátt Samt forspila á margan hátt, Og gálaus gjøri skérda. Vágt er Mjøg mér, Þó lánga æfi Guds mér gæsi Gæzkan, alla Tíd, ádur spillta, aptur kalla.

3. Sakamann, dauda dreginn nær, Sem dags-frest einn til lífláts fær, Mínútu' ónýtir eigi; Eins dags bil heita alteins má Allur minn frestur jørdu á, Fram ad burtfarar degi; O! hvad Eg þad Lítt adgæti, Líf svo bæti, Og láti af illu, O Gud! mér forlát og varna villu!

4. Þú einn úthlutar tíma og tíd, Tímans vanbrúkun fyrr og síd Gétur þér gédjast ecki;

Skyldi eg þá því, sem eptir er, Með uggleysinu spilla hér, Sem hefnd þó þína þeckt? Æ! frá Því þá Þú mér forda, Og þinna orda Þrátt lát gæta, Lífs frest vel brúka og lifnad bæta.

5. Hvad eg á eptir ólifad, O Drottinn Gud! mér blessa þad, Og helga þér til handa; Þín jafnan leidi miskun mig, Um manndygda og gæfu stig, Og láti lífid vanda; Svo eg, Um veg Gudrækninnar, Gæzku þinnar Géti notid, Og eylífa farsæld um aldir hlotid.

## 30. Sálmur.

Lagid: Á Gud eg einann.

Ef eg Gud eina Elska og Jesum minn, Minning heims meina Mig hryggir eckért sinn; Eg finn hans frída Forsjón æ yfir mér, Honum þó hlýda Hafi eg tregdast hér, Sem barn sitt ást hans blída Bar mig á ørmum sér.

2. Mjøg mínu sinni Marga advørun gaf, Svo komast kynni Klækjanna brautum af; O Gud ástkæri! Eylíf er miskun þín, Hrygd þó

hér bæri Til handa sálu mín, Ánægdur vel eg væri, Vernd ertu mér frá pín.

3. Heims last, hrygd, mæda, Sem heimsins sturlar børn, Mig má ei hræda, Mitt ertu skjól og vørn; Eg sé mig sælann, Sem þig útvalid hef, Og finn yndælann Frid, sem ei burtu géf; Megn ef blæs mótgángs kælan, Mig í þinn fadm innvef.

4. Eg bid, þó blakist, Blessud uns kémur stund, Ad inn eg takist Utvaldra í samfund; Þar finn eg frída Fyrr-þreyda brædur mín, Bygdar Guds blída Borgar þá alla pín, Hér sem eg hlýt ad lída, Hvør létt er og skjótt dvín.

5. Æ! því er eigi Øll mín vidleitni sú, Sífeldt sæll megi Sameinast þér, Jesú? Þú sál! þér flýttu, Þíns Guds um vingan bid, Nád hans þér nýttu, Nádþyrstum fær hann lid, Bøndin þau burtu slíttu, Sem binda þig heiminn vid.

6. Mergd synda minna Mig hryggja, þad eg finn, Gnægd gæda þinna Gledja mig, Jesú minn! Øll þú afmáir Afbrot, og huggun tér, Þú gløggt mín gáir, Og geymir hvar

eg fer, Þess lífs, er sál mín þráir, Þarmed von géfur mér.

## 31. Sálmur.

Lagid: Mit hjarta! því svo hryggist þú.

Mig gledur Drottins mildin blíd, Er mín vel gætti allan tíd, Og hag minn annast vann; Hvør dagur sífeldt sýna kann Sønn þess merki: gódur er hann.

2. Tímum ókommum trúnni í Tek eg ánægdur móti því, Eg veit hann verdur mér Ørlátur fadir, ást hans hér Umsorgun um þørf mína ber.

3. Hann verndar réttum vegi á, Varnar háskanum, bætir þá Skort, ef mig hittir hann; Umsjón hans, sem eg ætíd fann, Aldrei frá mér burtvíkja kann.

4. Hans guddóms maktin háleit víst, Hans fyrirheit, sem bregdast síst, Veita mér vissu þá: Ad á hann treysta tvíllaust má; Trú mín gledi héraf kann fá.

5. Eylífi Gud! eg þacka þér, Þá von eg hef: þó geymi mér Ókomin trega tíd, Muni

samt þín mildin blíð Mig annast, en sefa allt stríð.

6. Mér því ákvarðar, minn Guð! það, Mig sem helzt batar, svo eg að Vild þinni gjöri gá, Og leidist glæpa gøtu frá, Sem gálaus tíðum ráfaði' eg á.

7. Veit eg úthlutar vorkun þín Vægðar-samlegar raunir mín, Enn eg hef unnið til; Auðmjúkur vona á þig vil, Aldrei þína gæzku mér dyl!

8. Eg fel mig svo og allt mitt ráð, Eylífi Guð! í þína náð, Hvað gétur grandað mér? Því mig øllum voða ver, Veitir dýrð, þá hérvistin þver.

## 32. Sálmur.

Lagið: Himin-sól vendi í hafsins skaut inn.

Vor borgarréttur er viss himnum á, Vonin skal þángað og daglega sjá, Dag hvørn því kannfærast manneskjan má, Muni hið jarðneska forgá.

2. Því gjørir ørduga Herrann heims vist, Að hugsa vér skulum til sælu sem fyrst, Og

hjartad uppfyllist med lifandi lyst, Ad líta í dýrdinni sinn Krist.

3. Þá daudinn vor loksins ad dyrunum ber, Og dauda=med=kallinu burtleidumst vér, Fánýtt þad jardneska finnast mun hér, Frid sælu vonin þá bezt er.

4. Ef vér þess gættum um æfinnar skeid, Um þad vér sannfærdumst: hvørsu heims leid Er vølt, en bædi lífs lysting og neyd Lídur, sem þokan, í burt greid.

5. Ef vér þess gættum: ad tilreidslu tíd, Tíd heims má nefnast vort útlegdar stríd, Ofþúngt ei findist, þar farsældin fríd Fást mun á himnum og dýrd blíd.

6. Ef ad vér áltum himna dýrd hér Ad hálfu vid þad, sem í rauninni hún er, Flest mundum kjósa' ad vinna til vér Vegsemdar þeirrar, sem ei þver.

7. O Gud! sem líf vort hér leingt hefur enn, Lát oss þess gæta: þad enda mun senn, Lifnadinn bæta og betra oss kénn, Burt svo vér deyum sem Guds=menn.

8. Umhugsun himinsins upplífgi hjá Oss sálar krapta og laungun, svo þá Verdugir

gjørumst þeim gædum ad ná, Sem gódir um eylífd í dýrd fá.

9. Hérum vér beidum og hugsum sem ber, Høldum svo skeidid sem fyrirsett er; Daudans vid neydinni, Drottinn! oss ver, Í dýrdina leid sídan hjá þér.

## 33. Sálmur.

Lagid: Lifandi Gud! þú lít þar á.

Ef ad vér vissum allra nú Ost og tillaungun bædi, Þá mundum finna, þad er sú: Þeir eignist jardnesk gædi; Og ef mig prófa einnig þá, Eg finn mér sømu laungun hjá, Ad eg heims audnu nædi.

2. Lasta má ecki laungun þá, Ef leitast eg ad hljóta Hin beztu medøl henni' ad ná, Med hjartans betrun fljóta; Gudræknin víst er vegur sá, Til vænstu heilla leida má; Gódir helzt gæfu njóta.

3. Ef eg lestina elska bátt, Eg stytti mína daga, En ef dygdirnar drýgi þrátt, Drottinn mun því svo haga, Til heilla greidist hagur

minn, Hjartans ánægju þá eg finn, Leingir líf, bætir baga.

4. Ef eg dygdirnar elska þá, Eg fæ virdíngu sanna, Sem mér kann beztu bætur fá Fyrir baktal lastaranna; Hreinhjørtud vingan, vidmóts-þýd, Vorkunsemi og adstod blíd Gud-hræddra géfst mér manna.

5. Mín kvøldbæn því nú þessi er, Það eg dygdugur verdi; Gudrækni mun þá géfa mér Gott lán og rétt framferdi, Sálar heilbrygdi, sóma, grid, Sanna ánægju og þann frid, Sem ángist engin skérdi.

6. Ríkdómur Guds er nóg mér nægd, Neyd og skort þá eg kanna; Hans vingan er mín hugarhægd Mót hatri vondra manna; Þó heimsins farsæld hverfi mér, Himnesk sælu-von stødug er, Girnd min og gledi sanna.

## 34. Sálmur.

Lagid: Skapari stjarna, Herra hreinn!

Gæti' eg þess: hvør er Gud og eg, Géfst þaraf hugsun audmjúkleg, Eg sé: hvørt verdur eg var þá Alls góds, er féck eg Drottni hjá.

2. Minn eymdarskapur ollir því, Eg voga' ei líta himininn í; En, ef eg sanna audmýkt kann, Ofan til mín þá lítur hann.

3. Sú Gudsþjónusta, sem eg hér Sjálfum hønum í trúnni ber, Mun hønum betur þókn-ast þá, Enn þúsund brenni-offur fá.

4. Hann, sem vesølum hjástod lér, Og heyr-ir hvad þeir girnast, sér Vel mína þørf, og veit hvørs bid, Vill mér því ecki synja um lid.

5. Hvad sem mér kémur høndum ad, Hønum eg treysti, víst er þad: Hann gétur sefad hvørja neyd, Hann gétur útryckt mér af deyd.

6. Æ! kéndu, Gud minn! aumum mér, Audmýkt þá sønnu læra hér, Svo eg adgæti: hvørsu hár Herra þú ert, og makt þín klár.

7. Þú ert hinn sami ár og síd, En mín hérvist er lítil tíd; Þú ert heilagur, en eg er Avalt sekadur fyrir þér

8. Án þín í blindni eg geing villt, Af því hjartad er vonzku fyllt; Augun hættuna ecki sjá, Eg því skadsemi hrædast má.

9. Andi þinn, Gud! mér vísi veg! Viltur

svo ecki ráfi eg Audmýktar gøtu gódri frá, Géf mér í tíma ad mér sjá.

10. Lýsi mér blessad ljósid þitt, Lífernid svo eg betri mitt; Rád þín mig leidi beztu braut, Bevari vel frá allri þraut!

## 35. Sálmur.

Lagid: Heimili vort og húsin med.

Hvad fær oss ollad ángistar, Ef vér þess vona þorum, Ad øll vor velferd er og var Utmæld af Gudi vorum; Hann sér: nær þjaka hrygdin kann, Hann veit medøl ad frelsa mann Af hvørskyns hættu sporum.

2. Hví skulum vér vorn huga þjá J holds umsvifa kífi? Geymd er vor lucka Gudi hjá, Grant sér hann fyrir lífi; Fel þig, mín sál! í forsjón hans, Fullvifs ad miskun Skaparans Bezt leidi, hjálpi, hlífi.

3. Máské Gud efri árum á Anaud til handa færi; Kannské vinirnir víkji frá, Veikleiki hardur særi; Edur ad fátækt, lýgi, last Leggist á oss og kremji fast, Er fyrir óttast bæri.

4. O! villsamt hjarta, hví vilt þú Hræðast og þannig efa? Það er Guð, sem eins þá og nú Pína hrygð kann að sefa, Hvað hann þér sendir, sér hann er Sannlega fyrir beztu þér, Veikum krapt vill hann gefa.

5. Kvíð því ei! mæta kannské þér Kjørin þessi aldregi; Hugsaðu, hvørnig bezt þér ber Búast við andláts degi; Fetaðu dygða feril þann, Sem Frelsarinn þér sýna vann, Svo lífsins sért á vegi.

6. Í þínum høndum heill vor er, Herra! því fast vér trúum, Géf oss þá náð: að þeckjum vér Pitt ráð, og til þín snúum; Verði á oss, Guð! vilji þinn! Veit, að gudrækni æ hvørt sinn Oss til burtferðar búum!

## 36. Sálmur.

Lagið: Um daudann géf þú, Drottinn! mér.

Serhvør lífsdagur leiðt oss fær, Lífs á hérvistar vegi, Dauða, eylífð og dómi nær, Dauðans þó gætum eigi, Þess fleiri daga þrýtur hér, Þess nær grøfinni erum vér, Og vorum effsta degi.

2. Erum vér búnir undir þá, Ef nú strax skyldum fara? Og ættum engann frest ad fá, Fljótt mun vort hjarta svara: Onei! eg sé med ángurs pín Enn er lángt milli Guds og mín, Mál er sig vel ad vara.

3. Ef dagsljós nú í sídsta sinn Séd hefd-um, hvørnin færi? Edur þessi málrómur minn Míns lífs seinasti væri? Hvørsu mjøg bløskra mætti mér, Ad mæta daudans kalli hér, Ef hann ad brádum bæri!

4. Ef hvørja stundu fellur frá Fjøldi dáudlegra manna, Einhvern vorn hitta máské má Meiga í nótt: þad kanni; Orsøk því daudans øllum í, Ockar holdi, sem forn og ný Sjúkleika dæmin sanna.

5. Daudans nálægdar dulid mid Dýrstu váreygd áminni; Dveljum ei umbót vora vid, Velferd hvørr gái' ad sinni; En, ef menn þverúd eldast í, Ellin og sóttir hamla því Þeir ydrun audvelt finni.

6. Veittu oss, Drottinn! vér hvørn dag Vidbúnir heita mættum, Og sjáum um vorn sálar-hag, Sídasta kvøld adgættum, Svo

blómst undir sælann deyd, Og sídst, þá endar æfiskeid, Vísi himna vísa ættum.

## 37. Sálmur.

Lagid: Gleb þig, Gudssonar brúd!

Jesú líf ljósust var Lýsíng mannelskunnar, Hans dæmi ad ígrunda Oss ber, og vel ástunda; Hann bar umsorgun sanna Sífeldt um velferd manna.

2. Kostgæfinn gëck umkríng, Gaf sjúkum vidrétting, Aumstaddra eyddi trega Ódedinn lánga vega, Fátækra vitja vildi, Veitti þeim hjálp og mildi.

3. Sjón, heyrn, mál, vit, líf, lid Lýd gaf og andar-frid; Rósemi sinni sleppti, Svo fólkid lækníng hreppti; Undirgëckst eymdir kanna, Allt til velferdar manna.

4. Lofstírs né launa hér Leitadi hann ei sér; Girnd hans og gledi blída Guds vilja var ad hlýda, Og sitt erindid setta Med alúd bezt útrétta.

5. Hvar mun slík hittast ást? Hvar mun lík gæzka fást? Hvernin gétum vér grundad

Gudssonar líf? en stundad Ástleysi, ágirnd, brædi, Omiskun, last, sláræði.

6. Hvørr fær Krists fyrir sér Framferðid virdt svo hér, Hann ei med alúd heita Oski sér líkt ad breyta; En ef vort líf adgættum, Allir vér blygdast mættum.

7. Hans líf var heims um bygd Hreinasta ást og dygd; En, hvar er elskan heita Hjá oss og dygd fullneita? Hans mildi hlíf vér berum, Hardgédja títt þó erum.

8. O Jesú! oss kénn bezt, Ad líkjast þér sem mezt; J elsku oss umvefdu, Ástrík oss hjørtu géfdu, Gódsamt og gudhrædt sinni, Sem gleymi ei skipun þinni.

## 38. Sálmur.

Lagid: Túnga mín af hjarta hljódi.

Hvad mun valda: vér svo efum Veiktrúadir furdu þrátt? Þad: ad vér ei gaum adgéfum Gæzku Drottins, speki og mátt; Nád hans sjáum, Nær adgáum, Nærri oss í hvørri átt.

2. Himin, jørdin, hafid ríka Herma Guds ad makt er sterk, Einn dagurinn ødrum líka

Innir Drottins furduverk; Manns lífdagar, Lán og hagur Leida hérad vitni merk.

3. Sólin rennur upp og undir, En Guds gæzka sífeldt skín; Klædum skipta grøs og grundir, Guds sannleiki aldrei dvín; Á hann trúa, Til hans snúa, Tef því ecki sála mín!

4. Hvørn hann blessar, sá med sanni Síblessadur kallast má: Hér blessadur heims í ranni Himna blessan víst mun fá; Hans kann leida Hønd og greida Hag þess, er hann treystir á.

5. Vér því til þín veikir snúum, Vor himneski Fadir kær! Sképnum ei né einglum trúum, Án þín géti hjálpad þær; Pínu hlýda Bodi blída Bædi jørd og himin fær.

6. Forsjón þín vort fridar sinni, Fellir óttann traust á þér; Oss er óhætt undir þinni Umsorgan og gæzku hér, Þyk skal einum Hjá þér hreinum Hjálpar leita, neyd þá skér.

7. Ord þín bregdast aldrei kunna, Á þau skulum treysta vér, Þú munt hjálpa oss og unna: Ad hvad bágt sem mæta fer, Þad oss hljóti Helzt til bóta Horfa, ef vér trúum þér.

8. Þá má æfin ávalt verda Ørdug, sem

hún getur mest, Anægd vora ei má skérda, En þó gángi á móti flest; A Gud oss reidum, Gud vér beidum Geyma oss og leida bezt.

## 39. Sálmur.

Lagid: Annar ræníngimn ræddi.

Guds forsjón þeckja þýda, Þad hærsta luckan er, Og henni án alls kvída Þruggur treysta hér: Þaraf vér fullan fáum Fögnud, ánægju, hlíf; Hún hefir, sem vér sjáum, Sámteingt vorn anda og líf.

2. Hún er sem ákvardadi Allt hvad oss mæta kann, Og hvad helzt umvardadi Örlátur gefa vann; Daga-lífs trygt úttaldi, Takmörk fékk sorgum manns, Grundvöll þann gódann valdi, Sem gæfan á-byggist hans.

3. Því vilt þá, önd mín! eigi A Drottinn treysta nú? Gæt þess, sem Guds ord segir, Gæt þeirra, er festu trú A hans forsjón, þú finnur: Þeim fyrst vel alla tíd, Vonin því yfirvinnur Veraldar gjörvalt stríd.

4. Sleppum því vondu vili, Vors Guds oss felum nád, Einginn hans umsjón tvíli, Edur hans makt og nád; Sem hlýdin börn

oss høgum, Hann mun fyrir oss sjá, Og vorum æfidøgum Í miskun stjórna þá.

5. Oss bodnar æfum skyldur, Okvídnir tøkum neyd, Víst mun þá vor Gud mildur Vort blessa lífsins skeid; En þó hann ockur sendi Á stundum neyd og kross, Erum vér hans í hendi; Hvad getur skadad oss?

6. Þøck, Gud! þér færum frída Fyrir þad lidid er; Virztu med bidlund blída Blessa hvad eptir fer! Vora trú styrktu veika, Veit nád! þar girnumst á, Ad kynnum þíns kærleika Krøptuga umsjón fá.

## 40. Sálmur.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Ad óska sjálfum sér Síglødra daga, Vart fæst í verøld hér, Vill og sízt haga; Vort líf er veikt, Vor girnd nær ósedjandi, Vizkan skjóf, vina-trygd Vølt mjøg, en heims full bygd Af glæpa grandi.

2. Því viljum vænta þá Varandi gledi? Mun stadføst heims sæld þá Holl voru gedi? Mundi oss ei Andvaraleysid bleckja? Um Gud

og eylífð tíðt Í farsæld mundum lítt þenkja og þeckja.

3. Vér verðum varir þrátt Í velgeingninni, Hvørsu lán heimsins brátt Hrokat vort finni, Og gjørir kaldt Guðs aðvørunar gjætu; Hvað þá, ef heimi i Hefðum sífeldu því Meðlæti' að mæta?

4. O Guð! vér þøckum þér, Nær það sgrundum, Að oss auðmýktir hér Með ángri stundum; Án þess vér ei Af glæpa vegi snérum, Miskun þín mýkir kross, Með hvað þú sendir oss Ánægðir erum.

5. Hvað margir meir enn við Meiga þrátt líða, Sveingð, fátækt, svik, ófrið, Sjúkdóma stríða; Þeckjum þá náð, Við þessu sem oss sparar, Og hirtíng hægri með Hold vort og drambsamt géð Við glæpum varar.

6. Stjórn þinni viljum vér, Vor Guð! oss fela, Ast heims skal oss frá þér Ei framar véla, Gjør við oss hvað Gæzkan þín bezt álítur; Vér hyllumst þitt hjálpráð, Hvør þinni treystir náð, Hann miskun hlýtur.

# 41. Sálmur.

Lagid: Heidur og háleit æra.

Aumt mannsins ástand yrdi, Ef hann ei makt og náð Packa né treysta þyrdi Þess Guds, sem alls á ráð, Og allra kjör afmælir, Öllu bezt stjórna kann; Hvad værum vér vesælir, Ef vonudum ei á hann? Þá yrdi þúng hvør neyd, Þá mundi ørdug leid, Þá findist dapur deyd.

2 O! hvad óttalegt væri Án Guds ad hrekjast hér, Hvør dagur, hvør nótt bæri Hrygd og ángist med sér; Æ! hvad yndælt er segja: Eg treysti á Skaparann, Þann kann ei bølid beygja, Er batt sig í trú vid hann; Frá vili vondu snýst, Vélin heims óttast sízt, Vid neyd vongódur býst.

3. Háska=tíd óttast eigi, Offóknir, hatur, skort, Hann veit á hrygdarvegi Hæli er Drottinn vort, Hann linad hatrid getur, Hann fær offóknir bægt, Öllu víst afmark setur, Umbreytir skorti' í nægt, Sjúkdóma sefa kann, Serhvørn adstodar mann, Er vonar víst á hann.

4. Gud er vor gódur Fadir, Gledst hann heill vorri af; Verum því vonargladir, Vor er hann hjálp, sem gaf Oss Jesum Kristum kæra, Kyn manna lítur á, Hønum skal heidur færa, Hans makt ei dvína má; Ord þitt, Gud! gledi lér, Góð það lífsreglan er! Æ! géf það elskum vér!

## 42. Sálmur.

Lagid: Gæzku vors Guds nú prísum.

Þú sál! hyggst hvíld ad finna Hlutum stundlegum hjá, Sem þig þó gjarnan ginna Guds nád og hylli frá; Settu til sídu það, Er þér órósemd veitir, Og mezt þitt sinni þreytir; Hyggdu svo hérnæst ad:

2. Hvørn heims í lucku leiztu Lifa hér sigladann? Hvørn svo voldugann veiztu? Verdi ei svikinn hann, Opt líka ángurvær; Kann hann hafs bjóda boda: Burt hédan med þinn voda, Og eldíng: far mér fjær?

3. Eins kanntu skipa eigi, Audnan þér dvelji hjá, Eda á eymda degi Ogæfan víkji frá; Værum vordegi hér Bjód þú leingur vidbída

Og blóm-fegurd ei frálída, Hvørugt þó hlýd-
ir þér.

4. Allt slíkt því ysirgéfdu, Og leita Skap-
arans, J hans skjól inn þig vefdu, Og treystu
forsjón hans, Øll vond girnd víkur þá, En
rósemd, ánægt hjarta, Eins og sólskinid bjarta,
Leid þinni ljómar á.

5. Vilji Guds víst mun nægja, Og verdur
deildur þér, En hrygd og neydir-hægja Hugs-
un þess eptir sér; Leita því, sál mín! sízt
Hyllðar í hégómlegum Hlutum, er manns á
vegum Hrøsun opt valda víst.

6. Alla stund ad því gættu, Andlát þitt
færist nær; Hvad þér í daudans hættu Hugg-
un ei géfid fær, Ei skaltu elska hér; Góð sam-
vizka þér géfur Gledi, þá helid vefur; Þann
dýrgrip fádu þér!

7. O Gud! vér aldrei fáum J heimi betra
hnoss; Samvizkan góð því sjáum Sífeldt kann
gledja oss, Og sefa alla neyd; Lát oss því
hennar leita, Líka sem bezt vardveita, Medan
lífs várir leid!

# 43. Sálmur.

Lagið: Greinir Jesús um græna tréð.

Hvönær sem lít eg himininn, Hugur undr-andi skoðar minn Sól, túngl og allan himna her, Hvað dásemlega gjört það er.

2. Séu stjörnurnar sólir þá, Sem hafi hnetti að lýsa á, Hvílíkt veralda afgrunn er Allur-sá grúi fyrir mér!

3. Og ef Guðs maktin ávalt frí Öllum jafnt þessum verkar í, Hvílík forundrun heita má Herrans allstaðarnálægð þá!

4. Eða mun sá, sem allt tilbjó: Orminn í mold, og fisk í sjó, Ei hafa vísdóm allnógan, Að þekkja það, sem gjörði hann?

5. Hjartnanna þánka hann sér rétt, Hvörr fær hans vísdóm takmark sett? Himni og jörðu ekkért á Alvizku hans því dyljast má.

6. Vaki, mín sál! í þanka þér Þíns Guðs allstaðarnálægð hér; Hann sér þitt hjarta og hugarfar, Og hvörjar girndir kvikna þar.

7. Einginn afkimi orka má, Að skilja þig hans nálægð frá; Ljóslega verk þín lítur nú, Líka hvörn tilgáng hefir þú.

8. En fái slíkur þánki þá Þér aptrað illum verkum frá, Hann þér og verða hérmeð kann Huggunar-bezta-uppsprettan.

9. Nær þú í raunum harmar hér, Huggun er Drottins nálægð þér; Einmana neyðin ef þig slær, Agætann krapt hún géfið fær.

10. Lifir þú Drottins ótta í, Óhultur máttu vera, því Guðs nálægð jafnan gánginn þinn Greiðir með farsæld út og inn.

11. Lát oss framgánga fyrir þér, Faðir himneski! svoað vér Vegleiðslu þinnar vora tíð Verðugir heitum fyrr og síð!

## 44. Sálmur.

Lagið: Oss lát þinn Anda styrkja.

Um það áhyggju bera Ættum vér hvørja tíð, Í Guðs vors vingan vera, Og verk þau stunda fríð, Er oss halda í ástsemd hans. Hann veit og hann umbunar Hegðanir sérhvørs manns.

2. Ef vér hans orða gáum, Og hans forsjónar hér, Vér þá í sannleik sjáum, Sítrygg hans leiðslan er; Oss varð til heilla allt hans

ráð, Þetta oss sannast sýnir, Að séum hans í náð.

3. Er það lucka sú æðsta, Ást Guðs að finnast í, Öll farsæld heims hin hæðsta Heitir ei neitt hjá því; O! hvað vesæla virða má Þá sem heims gæði girnast, En Guðs vingan forsmá.

4. Guðs náð ef gjörum halda, Granda oss heims ei vél, Frómir gott mannorð gjalda, Góðverkum unna vel, En illra last og umtal ljótt, Sem bóla vatns fyrir vindi, Verður að hjaðna skjótt.

5. Vor góðverk ei þó vinni Veraldar hylli-dóm, Það særir ei vort sinni, Sinn ef Guð náðar róm Gefur oss þann: þau þóknist sér; Ástundum, hann sé ætíð Ánægður með oss hér.

6. En ef Guðs boðorð brjótum, Bráðlega yðrumst þá, Líf betrum, líkn svo hljótum, Lifandi Jesú hjá; Hans dauði kvittun keypti oss, Og þá vissu: að ættum Í vændum betra hnoss.

7. Stundum því: oss innvinna Ást Guðs, vér munum þá Lucku og lífs-sæld finna, Líka dauðastund á, Fullvissu öðlast fögnuð þann:

Í dýrd ad eigum verda Eign Guds, en vin vor hann.

## 45. Sálmur.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

Hvørr dagur þjáníng hafa fær, Hvørr dagur velgjørd líka, Sannfærist þarum sálin, nær Samanber hluti slíka; Hvør vor dags þjáníng optast er? Ervidi, sótt med kvída, Fátækt, last, hatur finnum vér; Færir hvør dagur vída Samt til vor blessan blída.

2. Sólar-ljós, mettun, svølun lífs, Svefninn, sem endurnærir, Ástvina sambúd, elsku' og hlíf, Oss sérhvør dagur færir; Guds þolinmædi, gæzka' og nád, Gédþeck fregn, óvænt kæti, Vor yfir girndum illum rád, Og annad, sem líf vort bætir, Má vera hvørs dags mæti.

3. Sérhvørn daginn því segja má Sannann velgjørníng vera; Mørg er vor þjáníng enda á, Er vér hlutum ad bera, Fyrr enn dags-tídin úti er; O! ad vér héraf lærum, Mótgáng bera, sem mætum vér, Med vili ei fortærum Krøptum, né sinnid særum.

4. O! ad Guds velgjørd vildum vér Vigta og yfirskoda, Meir enn þjáníngar heimsins hér, Sem hrygd oss litla boda, Orsøk þá findum fulla þrátt, Forsjón hans lofa' og prísa, Og dást ad Herrans mikla mátt, Er maktin hans alvísa Gjørir svo opt auglýsa.

5. Gætum þess! alhøg Guds er makt, Gétur skapt sæld úr raunum, Gætum þess og ad oss er sagt: Vér eigum von á launum; Upprennur dagur sælu senn, Sem einga þjáníng hefur, Gjørvallri hrygd þar gleyma menn, Því gledin blíd umvefur, Sem Gud af nád oss géfur.

## 46. Sálmur.

Lagid: Líknarfullur Gud og gódur!

Hvad mørg stund tapast hjá oss hefur, Helzt sést, nær Drottinn reikníng krefur; Hvørr mun þá segja: Herra! þinn Hef eg gjørt vilja dag hvørn minn.

2. Margra hitt játníng mun þá sanna: Mørg þúsund hef eg lífstundanna. Brúkad til synda saurgunar, Og sérhvørs þess, er bannad var.

3. Tapadar þessar allar eru, Eg hefi og í raun og veru, Á mørgum stundum mjøg í heim, Margt gott afrækt, og tapad þeim.

4. Margar eg gjørdi mjøg afrækja Til missjafnlegra fyrirtækja, Og annars þess, er óþarft var, Eru þær líka tapadar.

5. Nú þó eg sumar nýta vildi Til nockurs þess, er gjøra skyldi, Var Guds dýrd takmark ei þarf, Ei brædra heill; þær mistust því.

6. Vér ef lífs stundum vel adgættum, Vissulega þá játa mættum: Ad þannig flestar hér í heim Høfum vér mist og sóad þeim.

7. Óvíst er hvørt þeim aldri náum, Ad endurkeypt vér þessar fáum; Kannské einasta eina stund Eigum vér fram ad sídsta blund.

8. Æ! látum oss þá eyda henni J ydran þeirri, sem oss kénni: Ad búast undir andláts blund, Og dýrt ad meta hvørja stund.

9. Gætum þess! daudinn dapur kémur, Dagsverkid gjørist þá ei fremur; Velbrúkud æsi víst mun þá Verda dýrt borgud himnum á.

10. Jesú! hvørs lífid hér í heimi Hreint var og frí af synda keimi, Þíns lífs fullkomnan, frid sem lér, Forlíki allt hvad brutum vér.

11. Kénn oss lífstíd sem bezt ad brúka, Og betrun vorri svo afljúka, Ad dauda vorn og dóm hjá þér, Drottinn! ei þurfum hrædast vér.

## 47. Sálmur.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Állmørg tilfelli hér í heim Hulda nockur umvefur, Vér vitum ei hvad víst med þeim Vor Gud ályktad hefur; Sum af þeim skynsemd metur manns Mótstæd tilgángi nádar hans: Oss furdar, ad vér sjáum Nockra med leti og løstum hér Lucku þá fá þó, hvørri vér Ei med erfidi náum.

2. Heilbrygdann sjáum svallarann, Sjúkdóm hófsamur reynir, Opt þræl í metum, en þann mann Dvirdtann, dygd ei leynir; Af þessu møglun þrávalt skér, En þegar betur skodum vér, Rád Guds þá sést hid sanna: Hvørnig hans speki hefir rétt Hvørju einu til takmark sett, J mædu-kjørum manna.

3. Virdíngar-falli valda þrátt, Vondt svall drepsótt líkama, Oflætis drambid heimsku hátt,

Hrós og lán gjørdi sama; O, alvís forsjón! ecki vér Enn skulum prátta móti þér, Þó veg-ur þinn sé myrkur, Því hollari er hann þá oss, Í hvørskyns neyd og øllum kross Vor ertu von og styrkur.

4. Þú minntist Nóa, þegar hann Þjádist í vatna flódi; Þú valdir Jóseph veginn þann, Sem várd hans luckú grødi; Þú hófst Davíd frá hjørd á trón; Hvørn einn leiddir þinn trúan þjón; O! hvad þrátt oss þad skédi: Ad sá dagurinn, sem ad vér Syrgjandi byrja nádum hér, Endtist med gódri gledi.

5. Því fremur treysta þá skal þér, Þess fleiri merki sjáum Forsjónar þinnar, Fadir! vér, Sem fremur hennar gáum; Þér vor be-følum efni øll, A þér stendur vor trú gjør-vøll, Vér vitjum veg þinn feta; Í Himnaríki helzt med dád Handleidslu þinnar dulid rád Þeckt munum gløggast géta.

## 48. Sálmur.

Lagid: Gud miskuni nú øllum oss.

Bænin dýrmætast medal er, Ad mikla Guds velgjørd fáum, Hún er og til þess vegur: ad

vér Værd og rósemi náum; Ef synda viljum forkát fá, Frid, audmýkt, trúna rétta, Bænin skal leida þartil þá, Og þróa hlýdni setta; Vel kann hún verka þetta.

2. En, med hvad sannri sjálfs-þecking Svoddan bæn Guds skal leita? Sá má víst hata holds-blecking, Sem hennar vill kraptar neyta, Og med Abrahams audmýkt þá, Eda sem Jacob inna: Overdugur eg virdast má Velgjørda, Drottinn! þinna, Sem svo þrátt féck eg finna.

3. Þegar um fleiri þarmed vér Þorum velgjørdir kvaka; Oss þá í stærstu audmýkt ber Undir med David taka: Gjald mér ei eptir glæpum mín, Gæt þinnar stóru mildi, Dygdum ei treysta sómir sín, Sem eru meir enn skyldi Veikar, og vart í gildi.

4. Overdugleika vorn svo nær Vér høfum ysirskodad, Og hvad sú frelsun er frábær, Er Jesus hefir bodad, Þá eykst vor trú og sigursæld, Svoad verdugir heitum, Ad fá Guds nád, sem ei vard mæld, Nær eptir henni leitum, Og ad Guds bodi breytum.

5. Forþénan Kristí er þad af, Ad vér Gud

þorum bidja; O! hvílík nád, sem gledi gaf, Er gudleg bænar ydja; Hún færir sinnid hædir í, Himneskann forsmeck veitir; O, ad vér gleymdum ecki því, Oss vid hvad kært Gud breytir, Ad hann vor Fadir heitir!

6. Sannkristinn madur! sæll ertú, Sem Jesú árnan treystir, Lucka sú, sem hér þyggur þú, Pína sál víst hughreystir; Ad Gud vill hrópid heyra þitt, Hjartans fögnud uppvekur, En bænin gagnid sýnir sitt, Sjálfs þíns gæzku medtekur, Og ángur allt burtrekur.

7. Fyrir þér, gódi Fadir vor! Framgaungum vér þá gladir, Hrygdar ef feta hljótum spor, Hugsum vér fullhugadir: Eg er ánægdur, ef eg má Af Gudi mínum leidast, Viti' eg mér nád hans vera hjá, Vel mun minn hagur greidast, Og eg í trú tilreidast.

## 49. Sálmur.

Lagid: Gjörvöll Kristnin skal gledjast nú.

Guds barn ad vera er gæfa há, Sem gnæfir allt heims mæti, Eignumst vér hana, hvör er þá Hrygd, sem oss fremur græti; Ef vors

Guds andi vitni ber, Í vingan hans ad séum vér, Aflar þad ædstu kæti.

2. Missir heims-auds ef hrellt oss fær, Himneskra væntum gæda, Upphefdar tjón ef ad oss slær, Ei skal slíkt sinnid mæda; Ønd sú Gudi sameinud sést, Og sigrar girndir holdsins bezt, Fær upphefd efstu hæda.

3. Gud meigum þeckja med oss vér, Hans milda forsjón líka, Um alla tíd fyrir øllu ber Umsorgun nádarríka, Øllu til vorra heilla hann Hagar, stjórnar, svo hvørr einn mann Má reyna miskun slíka.

4. Vér þeckjum Krist, sem þoldi hel, Og þarmed flest hid illa; Vér finnum Andans verk er: vel Vör hjørtu rósemd fylla; Vinátta Guds skal vera því Vort góz og heidur lífi í, Og von, er víl má stilla.

5. En, skal slíkt mig ei minna á, Mín skylda rettvís heiti, Þeim Gudi sanna þjónkun tjá, Er þvílíka nád mér veiti? Ofdýrt keyptur eg er og sæll, Ad eg sé framar synda þræll, Og lyst holds eptirleiti.

6. Mín skal ástundan ætíd sú, Ei þann ad hryggja Anda, Af hvørs íbúd ad øll mín nú

Yndis-kjør lífsins standa; Eg vil képpast með allri dáð, Ei þá að missa Drottins náð, Sem mér bjó hjálp til handa.

7. O, helgi Andi! innræt þú Otta Guðs vorum sálum! Leið oss og stjórna líka nú Á lífsins vegi hálum! Varna við hættum, veit oss megn, Vondum ginníngum stríða gégn, Svo réttri braut ei brjálum!

8. Lát oss bendíngar þekkja þær, Sem þú oss gjörir senda; Gleð oss í hrygð og géf að vær Gætum að lífsins enda, Svo nær sem, Drottinn! þóknast þér, Þá með rósemi mættum vér Viðbúnir héðan venda.

## 50. Sálmur.

Lagið: Lofið Guð!

Vorn vanmátt Vér sjáum helzt af því: Að vér þrátt Ásetjum hjarta í Margt gott, sem þó fyrirferst, Og framkvæmist valla, Viljinn svo við veikleik berst; Vér nær ákalla Gjörum náð Guðs vors, þá heitum Allri dáð, En þar af breytum, Fatast ráð, Framkvæmd ei veitum; Áformið er alvörulaust; :,: Guð þó tíðum gédið vort Gjörði uppvekja. :,:

2. En ad hann Ei féck sinn tilgáng fyllt, Orka vann Ockar gáleysid villt; Oss afsaka vitum vér, Vart þó rétt dæma, En vor er Gud, sem verkar hér: Ad vilja' og framkvæma; Ei vantar Oss tækifæri, Sem ad bar Sann-brúkad væri, En þó var Vanrækt, þess bæri Því ad ydrast, þad er mist; :,: Vørumst vér! vor hverful heit Hefnd Guds uppvekji. :,:

3 O! ad vér Asetníng gudlegann Bædi hér Byrjum og endum hann, Eins og tíndi sonur-inn sá, Sem aptur snéri, Sami þánki sífeldt hjá, Sál mín! þér veri; Gæt vel, hvad Hjart-anu Kdur, Gjørdu þad, Gud sem þér býdur, Hygg og ad, Hart æfin skrídur, Asetníng slá ei á frest! :,: Hvørugt er í hendi þér, Hjartad né tíminn. :,:

4. Drottinn! þú, Dýr sér og ransakar Allt vort nú Aform og hugarfar; Þú veizt hvørsu hvikult er Hjartad og sinni, Ad hlýda, Gud! einum þér, Og skipun þinni; Ahræer því Vetid vort hjarta! Gef þarí Gudrækni bjarta, Sem ad frí Sjást kann og skarta, Svo ei tøpum sáluhjálp, :,: Fyrir vora forsómun, I fram-kvæmd hins góda. :,:

# 51. Sálmur.

Lagid: Far heimur farsæll.

Eingin er hér stund Annari full=lík á sér=hvorja lund, Astand vort breytist í skyndíngu skjótt, Þó skinjum ei sjálfir, hvad verdur þad skjótt, Jafnvel, hvad fremst girnumst, finnum vér er :,: Hégóminn einber. :,:

2. En nú erum vér Anægdir, heilbrygdir, gladværir hér, En næstu stund máské oss megi í kvøld Megn neyd áfalla og helsóttin køld, Því tíd vor sem flugstraumur flýtur, og er :,: Hégóminn einber. :,:

3. Opt vér ánægd af Ødlumst þeim gædum, sem Skaparinn gaf, Hugprýdi, fridleika, heil=brygdi, þrótt; En hradt dvín sú gledi, því finnum vér skjótt: Ad allt þetta rénar og reyn=ist oss hér :,: Hégóminn einber :,:

4. Vorra vina skaut Verdur oss yndælt, svo gleymum vér þraut, En hryggjumst med sama nær gjørum adgá, Ad grípa kann daud=inn burt oss edur þá; Hvad var þá yndid þeim hrepptum af vér? :,: Hégóminn einber. :,:

5. Og þid, heimsins hnoss! Þú, heidur,

makt, ríkdómur, sæld, von, er oss Svo tídum hér gledja, en tapist þó brátt, Og tjón mannsins sjálfs orsakid þrátt, Á ydar ágæti þá yfirskrift sér: :,: Hégóminn einber. :,:

6. Gjarnan gledjumst vær, Þá glød morgun-sólin oss upprennur skær; En, nær vér hugleidum, ad eittsinn hún á Fyrir oss ad formyrkvast og hverfa svo frá, Þá sýnist sú kæti, er svoleidis þver, :,: Hégóminn einber. :,:

7. Samt, mín sála! hér Syrg ei, því almætti Drottins þú sér Á sjálfu því hvikula heiminum í, Því høndin hans stjórnar og útbýtir því; Hans gledur mildi nær hverfull burtfer :,: Hégóminn einber. :,:

8. Allt hvad heimsins er, Og hønd Drottins örláta útbýtir hér, Þú brúka, vareygd og þakklæti med, En þitt láttu slíkt ecki festast vid géd; Hvørt lauf-bladid sýnir, ad heims sældin er :,: Hégóminn einber. :,:

9. Nú, fyrst þú sér þá, Þad er fallvalt sem jørdunni er á, Vel þú sannfærist ad sælla líf átt, Sjálfs fyrir høndum, hvørs vænta þú mátt; Þad varir eylíft, nær þrotinn er hér :,: Hégóminn einber. :,:

10. Þar verdur Gud þinn, Þar finnur sérhvørr og ástvininn sinn; Frá Drotni þar skilur oss alls eingin neyd, Ei sorg edur missir, ei líf edur deyd; Þar skal oss, vór Gud! ecki ginna frá þér :,: Hégóminn einber. :,:

## 52. Sálmur.

Lagid: Hvørr veit, hvad fiærri er æfi endi.

Hvørnig sem vér hugleida náum Heimsins biltingar, mædu, størf, Allstadar vora egin sjáum Eymd, þjáníng, lúa, neyd og þørf; En undireins Guds elsku, nád, Addáanlega stjórn og rád.

2. Hingadburd vorn ef hugleidt gétum, Hvør skepna fædist aumri enn vér? Og þó á eldri árin fetum, Afl vort og forsjón lítil er, Til ad afvenda øllum þeim Afsøllum, sem oss mæta í heim.

3. Margskyns tálsnørur, margt svikrædi, Mørg synd, andstreymi, fátækt, sótt, Bráett oss oftiða hera nædi, Blídur Gud ef vorn styrkti ei þrótt; Tæki hann sína hønd oss frá, Hvørnig mundum vér standast þá?

4. Hvad prátt kann óvænt hindrun sporna Heill þeirri mót, er leitum ad? Hvad opt, þó rísum árla á morgna, Aflar oss litils gróda þad? Utan Guds Födurs fyrirsjón Farsæli störf, en hindri tjón.

5. Sérhvörr oss þetta sannar dagur, Og sýnir vora eymd og neyd; Þad er Skaparinn himna hagur, Hvörs forsjón blessar vora leid; Undir Födur-stjórn handa hans Hagsælast lifs-ins kjörin manns.

6. Hönum því selum öll vor efni, Drugg-ir svo vort höldum skeid; Hann verndar oss í vöku og svefni, Veitir adstod í hvörri neyd; Ef med oss jafnan hér er hann, Hvörr er, sem móti vera kann?

## 53. Sálmur.

Lagid: Alteins og blómstrid eina.

Vid burtför búast sinni Bezt er, því einginn sér: Hvad mörg ár hvörju sinni Hösum ólif-ud vér; Þó tímans flug oss fleytti Fram á hærst elli-mid, Af leingstu æfi ei veitti, Sylifd ad búast vid.

2. Andláts undirbúníngur Augnabliks verk er sízt; Eylífdar ára hríngur Utkrefur meira víst; Synda ydrun, sár tregi, Sidferdis betrun fríd, Er ei á einum degi Algjørd, né stuttri tíd.

3. Eins og gárúngar ættum Ei mæta vor- um deyd, Heldur slíkt hugsa mættum: Hvørt mun í andláts neyd Eg, sem nú, mikils meta Makt, aud og heims munad, Edur med gledi géta Gætt sjálfs míns verkum ad?

4. Efi þó ættum mikid Olifad, hvad er þad? Rétt sem eitt augnablikid Vid eylífd samjafnad; Þarundir finnst þó falin Farsæld vor eylífd i, Til hvørs sú tíd er valin; Tökum oss vara því!

5. Skyldum vér skynsemd gæddir, Skap- arans fridkeypt hjørd, Ana fram alls óhræddir, Eins og villt dýr á jørd? Lífid er eign vor eigi, Af því oss þeinkja ber: Herrann á hvørjum degi Heimtar reikníng af mér.

6. Ydrun því ecki frestum, Eylífdin kémur senn; Aflátum illum brestum, Astundum, kristn- ir menn! Sérhvørn dag svo hagnytja, Sem byrjar, uns ad þá Vor gjørir daudinn vitja, Vér førum gladir frá.

# 54. Sálmur.

Lagid: Á þig, ó Herra Jesú Krist!

Sá tími kémur eittsinn ad, Er allt vort frá oss tékur; Metord, sæld, audur, sérhvad þad, Sem vora lyst uppvekur, Til andláts varir, en þá hér Oll jardnesk gædi kvedjum vér; Nóg er von manns þó náttúran-Nátt-tíma þann Ottist, því skadvænn henni er hann.

2. Von er, ógedfeld þyki þá Pau manns-ins kjørin hørdu: Ástvinum ryckjast øllum frá, Sem yndælt líf oss gjørdu, Og hafa øllum eignum af Einn moldar-hjúp, sem skjól þó gaf Fyrir rotnan og fúa sízt; Hver fátækt lízt Eins stór og þessi? eingin víst.

3. Vér høfdum máské heimi í Heidur og sældir nógar, Allt þángadtil, en ei úr því, Ollu því daudinn légar, Hvorki líkista, hjúp-ur, grøf Heitir vor eign, því stutt er tøf: Fjalir og blæa fúnar í smátt, En furdu brátt Adrir grøf vora eignast brátt.

4. Náttúru manns því ókært er, Ad mæta þessum kjørum; En, ef sem kristnir aptur vér Allt þetta skoda gjørum, Utlit mun helid ann-

ad sá, Ábati verdur misðirinn þá; Ogn sú, sem daudans ásýnd ber, Þá ockur er Orsök til gledi ædstu hér.

5. Lífsins Herra! þín líknin blíd Líni nærð vorra kjøra! Umheinking dauda' og andláts tíd Oss virztu rósamt gjøra! Ferli þínum oss fylgja lát, Á framrás tímans hafa gát, Heimsins vellyst ei gefa gaum, Né girndum taum, En hugsa: vor er hérvist naum.

6. Svo þegar kémur þarad þá, Þenna heim skulum kvedja, Med vissu' um hlutdeild himnum á Hjarta vort virztu gledja; Oll mýk og sefa andláts grønd, Anda vorn tak í þína hønd; Upprisnum svo oss aptur veit, Med engla sveit, Unun, þá manns ei augad leit.

## 55. Sálmur.

Lagid: Haldt oss, Gud! vid þitt hreina ord.

Ad øll heims mæda hverful er Huggar oss, þegar syrgjum vér; Opt þerrast tár vor af sem bezt, Í því vér grátum þó hvad mest.

2. Ef allt um heimsins æfi-skeid Umbreytt.

ist, nema hrygd og neyd, Orsøk ad kveina hefd-um hér; En hverful sorg sem gledin er.

3. Sinnis rósemd ef sjálfri þér, Sál mín! útvega viltu hér, Guds forsjón mildri gæt þá ad, Sem geymir sína í hvørjum stad.

4. Hvad ósæmileg er því nú Umkvørtun vor og lítil trú; Vanvirda stór er mjøg fyrir mann, Ad mót Guds forsjón þrátti hann.

5. Sjá Jósephs, Davíds, Jóbs forløg, Já, Jesú sjálfs, og undrast mjøg, Hvad Drottins leidsla dásøm er, Dag hvørn sem líka reyn-um vér.

6. Hvad ómaklegt er: heims um grund Hrepptum vér eina gledi-stund, Ef med þok-gerdi eckért hér Ogédfeldt vildum lída vér.

7. Festum ei vona þánka þá Þrengíngum lífsins jafnan á; Minnumst á þad: ad mædan víst Í meiri føgnud tídum snýst.

8. Ef oss nú skadar eckért mein, Adgætum þá, hvørt sorg ei nein Adra þjakar, sem eru hjá; Eymd þeirra skulum létta þá.

9. Þad kærleiks verk oss kætir þá, Kross-inn oss sjálfum liggur á, Og mun afþýsa ann-ara géd, Undir vorn þúnga ad létta med.

10. Og þó það bregðist, vitum víst, Vor Guð oss bregðst í raunum sízt; Hann greiðir allt til heilla og lèr Himneska dýrð, nær æsin þver.

## 56. Sálmur.

Lagið: O Drottinn allsvaldandi!

Pó Guðs velgjörðir þáðar Pær væru færri' enn hlutum vèr, Og ættu' á enda kljáðar Að verða fyrr enn kvøldið þver; Pøck vor ljós Væri valla Veðdugt hrós Fær að spjalla; Til lands og sjós Líkn hans nærir alla.

2. Ef vèr úmliðins gáum, Oræk Guðs náðar mérkin skær Allstaðar ótal sjáum, Hvar slag hvørt það sannað fær, Líf, krapt, frið, Ljós, dryck, fæði, Lækníng við Hvørri mæði Styrk og lið Lénti hans hjálpræði.

3. Hvað ótal margar heita Hans þá velgjørðir lífs um tíð? Hann gaf svefn hvíld að veita, Hans vakir hulin forsjón blíð; Hvørr kann hreint Hans náð spjalla? Hvørr fær greint Dásemd alla, Er ljóst og leint Lèt hann oss tilfalla?

4. O Guð! ef englar meiga Einnig dást

þínu veldi ad, Hvørnig mun megna meiga Madurinn nóg ad prísa þad? Vor er dád Veik shuga Vald og rád Þitt máttuga; Ást og nád Ei samt frá oss buga!

5. Upptálid ei þó gétum Ástverk þín, samt þau láttu hér Uppvekja oss, ad fetum Æ þann feril, sem skyldugt er, Þér svo téd Þackir fáum, Þitt og géd Stunda náum, Vors þarmed Vanmáttarins gáum.

6. Ef vér med ordum prísa Ei megnum Gud, sem byrja kann, Vor skulu verk auglýsa, Ad viljum ávalt dýrka hann; Ef verk hans Hér ei sjáum, Himnaranns Sælu þráum, Gjafarans Gæzku þeckt hvar fáum.

7. Og þegar vorir enda Æfidagarnir jørdu á, Vér munum gladir venda, Vorn Gud prísandi, hédan þá; En í sal, Sál fyrr þreyda Sælu skal, Utan leida, Lofsaungs tal Lifandi Drottni greida.

## 57. Sálmur.

Lagid: Fadir vor! sem á himnum ert.

Lífs vors er kallan, lucka og mid, Ad lifa í sønnum dygda sid; Því skaltú læra' ad skilja

hér, Hvad skyldan þørf og dýrmæt er; Æfdu daglega þecking þá, Þeirri svo aldrei víkir frá.

2. Gæt þess: hvør skylda' er gæfa víst, Girndum hínum ljá tauminn sízt, Ofvel þér sjálfum ecki trú, Avalt þinn lifnad prófa þú; Minnst þess: hvørr þeildur dagur þér Dýrmætur partur lífs þíns er!

3. Um Jesum þeink og øll hans verk, Uppœhvatníng þér er líf hans merk; Vanmátt ef finnur, þetta þér Prísti til bænar, styrk hann lér; Þennan heim lær ad þeckja bert, Þig med, og til hvørs fæddur ert!

4. Þeink um, hvad stutt þér líf er léd, Ett hvad þín sál er dýrmæt med; Laun dygda skoda laungum hér, Líka straff glæpa' er eptir fer; Samvizku raust ef sefast, bid! Syndirnar skildu jafnan vid!

5. Helzt fra úngdómi hvørja tíd Hollrar samvizku rádum hlýd; Eitthvad þarft jafnan ydja skalt, Erfidid dygda framfør haldt; Lystíngum neita leyfdum þrátt, Svo lærir dempa girnda mátt.

6. Vondra umgeingni fardu fjær, Forsjálnî af gódra dæmum lær, Haldir þú áfram þá

med því, Þú munt fljótt vara dygdum í, Vara í farsæld fridi med, Fylgir þá gott og rósamt géd.

7. Ef vér nú veljum veginn þann, Venjumst vér brátt ad þræda hann, Þá eflist luckan þrávalt ný, Þá er allt feingid verøld í; Þá munum hér um lífsins leid Leidast ánægdir fram ad deyd.

8. O Gud! vor hjørtu uppvek þú, Ad vér gudrækni, dygd og trú Avalt stundum, lát Anda þinn Oss þad hugarfar géfa inn: Ad, svo sem kristnum sómir hér, Sífeldt kappkostum líkjast þér.

9. Veit oss framfør í vísdóms dád, Veit oss sameinast þér, svo nád Fullkomnri rósemd fáum vér, Farsælir stundum bezt hvad er; Vort styrktu líf og veika ønd! Vér felum oss í þína hønd.

## 58. Sálmur.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Aldrei nóg vér adgætt fáum Oll Skaparans miklu verk, Hvør vér jafnan hvern dag sjáum,

Hvad þau eru stór og merk; Hvad má fremur hrært vort géd Helgri undrun fylla med? Hvad meir hvetja hann ad prísa, Hvad hans gæzku meir auglýsa?

2. Hvad má traust vort fremur festa, Enn furduverka Drottins sjón? Hvørs dýrd á því minsta og mezta Má eins sjá; ei lídur tjón Einn titlíngur, eitt grasstrá, Utan hans sé vilji sá; Allir reyna' í allri veru, Addáanleg verk hans eru.

3. Hvørs meistara handverk gétur Heimsins bygging jafnast vid? En, hvad veldur, madurinn metur Manna verk og þeirra sid Meir enn Drottins dásemd þó Dýrdlega sem allt tilbjó? Skodum jardar sképna mergdir, Skodum margbreytt kyn framferdi!

4. Hvørr slíkt skodar, hann sér vottinn Herrans maktar, játa má: O! stór verk þín eru, Drottinn! Einginn nóg þeim skírir frá; En helzt fáum, Herra! þeckt, Hvørsu þitt er veldi frekt, Vér sem dupt og aska erum, Oss vid þig nær samanberum.

5. Inn þó skygnst vér ecki fáum I náttúru filsnin huld, Af þínum verkum samt vér sjáum,

Sé þín maktin eingum duld; Helga lotníng héraf fær Hjartad; sídar munum vær, Í þeck-íng þinni leingra leiddir, Lof þér greida vel tilreiddir.

6. En hér medan á jørd byggjum, Ydja vor sé jafnan þad, Guds vér verkum helzt ad hyggjum, Hans og vísdóm dáumst ad; Svo opt himin sjáum vér, Svo opt jørdu lítum hér, Svo opt ad oss sjálfum gætum, Svo opt oss hans makt innrætum.

7. Í dupt sér vor andi flegir, O vor Drottinn! fyrir þér, Og lof þér af audmýkt segir, Ad þín nád svo mikil er; Þú oss leidir, léttir pín, Líka greidir veg til þín, Þar vér skodum þig, vor Fadir! Þar vér bodum prís þinn gladir.

## 59. Sálmur.

Lagid: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Ef Ritníng lesum helga hér, Í henni óræk dæmi vér Finnum: hvad bænin mikid má, Mun neinn þann sannleik efad fá; Bæn lýds-ins Pétur frelsad feck; Fyrir bæn Mósis yfir

géck Israel hafid; einninn gjørd Elíaſs bæn féck regn á jørd.

2. Hann bad, og líf þad barni gaf; Brendi fórn eldur himni af; Ezechías bad, og full því fann Fimtán ár løgd vid æfi hann; Jesús bad sjálfur jørdu á Jafnan, hvørr vill því efad fá: Ad hans bæn jafnann hafi mátt, Ef hann í trúnni bidur þrátt?

3. Guds ecki bregdast gæzkan kann, Gódur, sem fyrri, enn er hann; Vér fridkeypt børnin Frelsarans Af fyrirbón erum styrktir hans; O Drottinn! nád þín eylíf skín, Eyrun þú byrgir sízt oss þín; Hønd þín er aldrei ofstutt þá, Oss nær hjálpinni liggur á.

4. I Jesú trausti, ó Gud! vér Utausum hjørtum fyrir þér, En, hvarum bidjum, Herra! þá? Um hjálp, svo veg þinn røtum á; Já, sú bæn þócknast þér hvad mezt, Því muntu hana heyra bezt, Og géfa vorri øndu hvad Oss styrkir þér ad hallast ad.

5. Heims þó ei munad hrópum á, Himneskt sælu-von nægja má; Vorn látum lúta vilja þér, Vitum þín forsjón stødug er; Anda þíns géd vort ørfi nád, Ad í bæn vorri stødugt

ráð Fáum vér til að fylla það, Sem fyrr vort hjarta þig um bað.

6. Vort líkt Salómons sinni sé, Sem ei girnist helzt makt og fé, Heldur þá speki: að hlýða þér, Og hvað eitt stunda rétt sem er! Æ, Drottinn! ráðvandt géf oss géð, Gæfu nóga þá fáum með; Og þó heims velmakt víki frá, Vizka og dygð oss nægja má.

## 60. Sálmur.

Lagið: Kom Skapari heilagi Andi!

Vorri hrygð einatt valda má, Vor kjør oss eigi nægja hér; Því er eg ecki eins og sá Auðugur' virðtur? hugsum vér.

2. Svo gleymum vér því góða þrátt, Sem Guð oss sjálfum lét í té, Og hugsum þarum harla fátt, Hvað stór hans gæzka við oss sé.

3. Vér metum ei hvað mørg þúsund Meðbræðra vorra' á jørðu hér, Meir hafa orsøk marga stund Miður ánægðir lifa' enn vér.

4. Vér lifum hér í landi frí, Lágt þó með-

brædur vorir opt, Þraungum fángelsum fastir í, Fá ei hvíld, skímu, dag né nótt.

5. Vér hvílum tídt í húmi rótt, Heilbrygdir rísum fætur á; Adrir med kveini eyda nótt, Af straungum sóttum værd ei fá.

6 Lífs til vidurhalds høfum flest, Hvad oss naudsýnlegt jafnan var; En margir þola braudsins brest, Betlandi leita næríngar.

7. Hví þá øsundum adra vér, Øsundar verdir framar þó? Þar oss med audmýkt þacka ber Þau kjør, er Drottinn oss tilbjó.

8. Herra! kénn oss ad hlutdeild sú, Hvørja þín nád oss géfa vann, Sú hin hollasta sé oss nú, Svo ei møglum um skamtinn þann.

9. Overdugleika oss vorn sýn, Ei høfum neitt gott forþénad; Hvad oss útgreiddi gæzkan þín, Géfins veitt miskun allt er þad.

10. Lát oss þess fremur þacka þér, Þinni nád treysta, sannfærast; Þín stjórn vor lucka ávalt er, Aldrei sem kann ad fortærast.

11. Frá synd oss ótti fordi þinn, Fyll oss kærleika, styrk vort géd, Ad hvad oss mætir hvørt eitt sinn Hjartans ánægju tøkum med.

# 61. Sálmur.

Lagid: Medan Jesús þad mæla var.

Bezta lífsregla oss þad er, Ad samanberum líf vort hér Vid þann dóm, sem vér sídar á Sjálfs vors athafnir leggjum, þá Oss kynni mæda sárleg sótt, Og sorg inntaka hjartad skjótt, Edur þá daudans dregst ad nótt.

2. Opt skyldum spyrja oss ad því: Æ! hvad um líf mitt, þúngum í Sjúkdómum, mun eg þenkja þá, Þýd lækníng engin stoda má, En grátnir mínir ættíngjar Yfir mér standa' og vænta þar, Daudinn mig burtu dragi snar.

3. Æ! hvad þá dæma hugsum vér Um hvørs dags lifnad ockar hér: Andvaraleysi, lesti, spil, Lífinu sem vér eydum til? Mun géta hjartad føgnud fyllst Fordjarfad líf og illa spillt, Eda girnd vond, er gat oss villt?

4. Hvad munum dæma hérum þá Himin og jørd fortærast á, Nær kraptar himna hræraft skjótt, Hristist grundvøllur jardar ódt, Høfudsképnurnar hjadna þar, Hesst dómur, opnast bækurnar, Sem lýsa hvørnig lifad var?

5. Ef nú hugleidum þetta þrátt, Þá mund=

um ei svo ofurbátt Andvaraleysis elska hag; En, adgætnari sérhvørn dag, Eckért svo byrja, ad ei vér Adur spyrdum oss sjálfa hér: Hvørt gengur þú? þess gæta ber.

6. O Gud! sem anda gafst oss þánn, Góda skynsemi brúka kann, Sem þeirri skynsemd sómir bezt, Send oss nád til ad gjøra flest! Fótstigum vorum stjórna þú, Ad stefnum á þá sælu nú, Sem eptirbídur enn vor trú!

7. Lát oss adgæta veg vorn vel, Vort til þín hneigdu hjartans þel, Géf oss hugleida dauda' og dóm, Dýránn þinn elska orda róm, Og svo daganna enda tal, Ad komumst í þinn dýrdar sal, Hvar sál þig lofa sífeldt skal.

## 62. Sálmur.

Lagid: A Gud alleina.

Vér Jesú vorum Verdt er þá þøckum nád, Þad bidja þorum Þann Gud, sem alls á rád; Hans er hjálprædi, Hvørs njótum fyrr og síd, Hann bjó oss bædi Bænheyrslu' og verdlaun fríd, Og þau eylífu gædi Um endalausa tíd.

2. Svo nær ed sendum Sanna bæn Gudi

vér, Hug hértil vendum, Hann Jesú Fadir er, Vort traust þad vekur, Vér djarfir leitum hans, Er ei burtrekur Andvørpin syndarans, Heldur vel hýr medtekur Hjartans girnd trú-ads manns.

3. Vor hjørtu hrærir Heilagur Andi sá, Er fridinn færir, Og fulltraust Drottni á; Oss eignum alla Endurlausnarans nád, Gjør-um grundvalla Góda trú á hans dád; Svo kann oss sønn tilfalla Sæla og hjálparrád.

4. O Jesú! allir J kvøld þig nálgumst nú, Greidum gjørvallir Gudi þakklæti' í trú; Ef-laust þín þýda Þetta fyrirbón er, Ad ei útlída Æfin vor gjørdi hér, Og ad Gud enn vill bída Eptir ad betrumst vér.

5. Géf nád, bezt brúkum Týttann frest dygda til, Og því afsljúkum, Sem er þér helzt í vil; Gleym syndum gjørdum, Géf styrk, þá skeikum vér! Bæg hefndum hørdum, Hýrga, þá sorgin skér! Æ, líkn oss, þótt lítt vørdum Lífi til dýrdar þér!

6. Þýdt haf þolgædi, Þín miskun hjá oss sé, Med hefnd, sem hrædi, Høgg ei uppvisin tré; Tal tilbidjenda Trúrra lát vaxa hér,

Virzt viltum senda Vidrétting, bidjum vér; Nafn þitt til alheims enda Utbreid til dýrd-at þér!

## 63. Sálmur.

Lagid: Taladi Jesús tíma þann.

Hvad eitt er sjáum ár og síd, Um þad sann-færa hlýtur, Ad vor mest ársdandi tíd Upp-hefst, nær lífid þrýtur.

2. Heimur og øll hans umbreyting, Oskir, stand, sótt líkama, Og allir hlutir allt umkring Auglýsa rétt hid sama.

3. En þó sannar slíkt allrahelzt Endurlausn vor, og pína Jesú, sem hefir framkvæmt flest Fyrir ástvini sína.

4. Oss er slíkt gledi, en aumka ber Adra sem blindnin vefur, Og ávalt gleyma eylífd hér, Er Gud þeim tilreidt hefur.

5. Varastu svoddan, sála mín! Sífeldt hins minnast ættir: Uppá þad gafst þér æfin þín, Um eylífd lifa mættir.

6. Minnst og, nær syndin hér í heim Hjart-ad þitt svikul bleckir: Lestirnir skyldu leidir þeim, Sem líf eylífdar þeckir.

7. Þeim góda veg ef þreytist á, Þess gæt: hvørt dygdin leidir; Ef þreyngíng lífs þig mæda má, Minnst launa', er eylífd greidir.

8. Nær líkams hrynur hreisi hér, Hjartad þitt ecki gleymi: Eylífdin borgar ørlát þér Allt hvad mistir í heimi.

9. Búumst því undir eylífd vér, Ad hennar gædi hreppum, Undir því falin farsæld er, Færi því ecki sleppum.

10. Varliga brúkum tæpa tíd, Tídum vort líf ígrundum; Eylífdar borgar farsæld fríd Fríd verk þau hér ástundum.

11. Eylífdar Fadir! oss kénn þú, Akvørdun vora' ad þeckja, Engin heims gædi orki nú Oss frá þeim þánka' ad hneckja!

12. Hugsun eylífdar oss innræt, Undirbú þér til handa; Vid heims ginníngum vor þú gæt, Vondt eckért lát oss granda!

## 64. Sálmur.

Lagid: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Þó virdist hulin vor tíd hér, Víst er þad: eylífd eptir fer; Hér kann ei endast allt vort

stand, Ei hér vera vort føburland, Annars væri nú ástand vort Ecki svo fullt med neyd og stort, Og vorn líkama ecki þá Umbreytíngar svo mundu þjá.

2. Eins mundi girnd vors anda rétt Einhvørn tíma sig fá hér mett; Oskiljanligt er allt vort kíf, Ef hér í heimi er sízta líf; Nei! oss hefir Gud ákvardad Einn varanligri samastad, Og hærri kjør, enn heims um grund Hryggjast og gledjast litla stund.

3. Væru' ei røk hértil ønnur viss, Er þad þó daudi Jesú Krists; Skyldi hann deya víst svo vér Vellysta fárra nytum hér? Skyldi hann þola þúnga kvøl, Þó fyrir litla stundar dvøl? Skyldi hann láta líf? en menn Lífs frelsíd þeckja nanmast enn.

4. Vors Jesú frelsan vottar þad, Var oss annad líf ákvardad, Þess vitni jardar breyting ber, Betri heimur oss geymdur er, Hvar endurleysium Herrans hjá Hærri fullkomnun munum fá, Enn møguligt í verøld var, Veikleika medan holdid bar.

5. Nær þetta skodum, virdum vér Vigtugan tilgáng lífs vors hér: Vér sjáum til hvørs

líf var lént, Líka hvört kjör þess fá oss bendt; Vér búumst eylífð vorri við, Vel brúkum léda tímans bið, Og keppumst lifnað lagað fá, Líkast heim, sem er himnum á.

6. Hjörtun vor fyllir heims um tíð Himnesk ánægja friðar blíð, Svo að vér elskum síðfeldt þá, Er sambræðra vænum himnum á; Með Anda þínum allstaðar Innræt oss, Guð! það hugarfar, Þá mun oss blessast þessi leið, Þá mun vort rósamt líf og deyð.

## 65. Sálmur.

Lagið: Pétur þar sat í sal.

Vors lífs viðurhald er Verk Guðs, slíkt sjáum, Nær líkams veiki vér Og voða heims gáum.

2. Hvað opt lífs viðhald víst Vanræktað höfum, Svo furða syndist sízt, Þó svæfum í gröfum.

3. Víst því til einn Guð er, Umhyggju ríka Er fyrir öllum ber, Og stjórnar líka.

4. Væri ei vöktun hans, Vaggan gröf auða Víst mætti verða manns, Og vær svefn að dauða.

5. Ad høfum hræring, líf, Heilsu, not gæda, Allt sannar: ad vor hlíf Er Drottinn hæda.

6. Væri ei vissa sú, Vort hjarta mætti Hrædast allt hvad oss nú Helzt mæta ætti.

7. Því prísum þína náð, Þú himna Fadir! Ad þitt umsjónar ráð Æ skodum gladir.

8. Mínkun þad mikil er Manni hvört sinni, Ef treystir ei sem ber Umsorgun þinni.

9. Géf þú oss þacklátt þel, Þér svo fast trúum, Og med audsveipni vel Oss til þín snúum.

10. Svo hrædumst heims ei kíf, Hvad sem oss mætir; Þú ert vort ljós og líf, Í lífi vor gætir.

11. Leid oss í umsjón þín, Audgada gædum, En þegar æfin dvín, Í dýrd á hædum.

## 66. Sálmur.

Lagid: Frid veit þú voru landi.

Hvörr einn þá luckn hefur, Sem hollust víst hans sálu er, Missáfnt þó, hvad Gud géfur, Gjarnan úthlutad metum vér; Alvaldur út samt

býtir Ollu vísdómi med, Farsæld vorri þad flýtir, Ef fáum þess vissu séd, Vorri rósemd þad veldur, Vardveitir øsumd frá, Örvínglan ei þá heldur Oss megnar nein ad þjá.

2. Hvørsu ánægdir ecki Endum og byrjum vér hvørn dag, Þegar vor sála þeckir, Þad Gud útskiptir vorum hag; En, kannské ecki finnum Ánægju þessa vér, Og hugsum því þrásinnum: Þessi er sælli mér; Þá eigi þad sgrundum, Þad hinn, sem farsæll telst, Má sakna mørgum stundum Margs, er oss bætar helzt.

3. Heims sæld ef høfum eigi, Hindrar þad blecking margri frá, Vér høfum færri vegi, Vorn Gud styggja, og meida þá Samvizku vora og sinni, Sízt lídur skipbrót trú; Ovinir ødlast minni Ofundar-sakir nú; Ver fridur vorrar sálar, Ver laungun himininn í, Heims brautir blídu hálar Betur adgætast því.

4. Ef meiri gledi gnóttir Gæfust, hvørt mundum kátir vér Hugsa um sorg og sóttir, Sjálfan daudann og eylífd hér? Þetta vill þúngbært falla Þeim, sem mjøg elska jørd; Gésum því Gudi alla Girnd vora og þackar-

gjørd; Því við oss bezt hann breytti, Blíður gaf farsæl kjør, Og sálum vorum veitti Vissu um himnaför.

5. O Guð! sem alls ráð hefur, Ánægð og rósemd veit oss fá, Og ef þú gnægð oss gefur, Gef oss drambsemi varast þá; En ef oss ólán hendir, Örvinglan geym oss við, Sálum vorum þú sendir Sanna skynsemd og frið! Himinsins dýrð íhuga, Herra! oss lát, sem ber, Svo mun oss síður buga Sorg eður gleði hér.

## 67. Sálmur.

Lagið: Guðs Son kallar: komið til mín.

Meðbræðra vorra vinskap hér Vel skyldum stunda' að hljóta vér, Svo, þegar líf skal linna, Missir vorn gráta margir þá Mættu til orsøk nóga fá, Og sárann søknuð finna.

2. Luckusamt er þá lífsins mið, Líkvers því fagrast kistu við Er, þá sannkristnir kveina: Lát, Guð! hins dána líka þú Leiðast í stað hans, fyrst að nú Missir hans meigum reyna.

3. Með litlri luckú' um líf sá géck, Er losś-

týr hvørki á né fèck; Betra er líf svo linni, Ad vorn rádvandir vidskilnad Verdi gráta og sanna þad, Ad sárann søknud finni.

4. Séfum því øllum orsøk vær, Ad blessa vora minníng, nær Nákaldir lík vér liggjum; Rádvendni, miskun, rósemd, sátt Rækjum, óvina jafnvel þrátt Sannmæli þaraf þiggjum.

5. Ástvini vora eckért kann Eins fremur hugga, enn vita þann Sannleik: ad sælu feingnum, Frelstir af sorgum, fári og neyd, Fyrst um útrunnid lífsins skeid Á vegum Guds vér geingum.

6. Hvad þerrar þeirra harma tár Hér fremur enn slík vissa klár: Þeir muni skjótt oss finna, Í himna yndis sælu sal, Hjá sjálfum Krist, hvar aldrei skal Sambúd né líf vort linna.

7. Endalykt slíka' ad ødlast hér Óskum og képpumst fremur vér, Enn elli hreppa háa; Marga burt gamla daudinn dró, Sem daga lífs med manndygd þó Áflisdu ofurfáa.

8. Ástundum því um æfitof Ávalt svo breyta, ad hvørr, í grøf, Rádvandur bein vor blessi; Gott nafn er betra gulli' ad fá, Graf-

skrift ei heldur jørdu á Finnast má fegri enn þessi.

## 68. Sálmur.

Lagid: Herra Gud í himnaríki.

Þessi skal vera vor stund nú, Vér til Guds snúa gjørum, Víst því adkoma verdur sú Vel, ádur héðan førum.

2. Vér skulum betrun vorri á frest, Vitum þó tímann fara; Einatt féck daudinn líf manns lest Med litlum fyrirvara.

3. Kannské, þá heimi þessum vér Þjónum og synda ydjum, Oss beri daudinn burt med sér Á blóma aldri midjum.

4. Og þó vér kynnum elli ná Eptir stund lífsins tapta, Mun vor tilhneigíng hértil þá Hafa meir lyst og krapta.

5. Onei! því meir nú þjónum synd, Þess meir í girnd oss slækjum, Þess heldur vex vor þrjózkan blind, Því meir Guds bod afrækjum.

6. Drottinn vald vorrar æfi á, Osmikid sízt má kalla, Ad til Guds dýrdar gódrar þá Géfum tíma lífs alla.

7. Vér flýum því á valdið þitt, Vor Guð! og synd afneitum; Géf oss afbrotin gjørvøll kvitt, Sæt þess, að børn þín heitum!

8. Opt hétum vér þér elsku tjá, Opt þér þjóna og heyra, Opt glæpum hafa andstygð á; En, Guð! það varð ei meira.

9. Hjálpa oss þó með þinni náð Það góða byrja og enda; Æ að vara í allri dáð Oss virztu krapt til senda!

10. Hlýðni sú, sem nú sverjum þér, Sízt lát oss hverfa' úr minni, Að vér framgaungum eins og ber, Undir varatekt þinni.

11. Ginníngum heimsins geym oss við, Géf dygð og stødugl ynði, Sálar rósemd og sannann frið, Svo høfum lán og yndi.

## 69. Sálmur.

Lagið: Adams barn! synd þín svo var stór.

Vort líf er sífeldt sorg og þrá, Sárfáa daga telja má Fría frá allskyns ama; Skjaldan svo allt að óskt er veitt, Að ecki framar vanti neitt Víst í vetfángi sama: Séum vér ríkir, sótt er nær, Séum heilbrygdir, fátækt slær; Høfum

vér það hvørttveggja, Vantar opt trúrra vina fund, Vantar rósemd og glaða lund, Er lán heims ei kann tilleggja.

2. Skjaldan fæst allt, sem óskum vér, Aumra manneskja sjónir hér Stundum vort særa sinni; Stundum samvizkan saurgud slær, Svíður skaði, er maður fær, Ymist meir' eða minni; Stundum svíkur oss vonin veik, Vor gleði tíðt svo fer á reik; Stundum Guðs hulda høndin Tiptar oss, að vér auðmýkt með Ástríkt hans þeckjum føðurgéð, Og flýum glæpa grøndin.

3. Ihugum daga allá þá, Er heims sællífi þéntum á, Og þá oss íllt ásettum; Teljum daga þá loks, er lágt Láum sjúkir, og næsta fátt Af góðu vér útréttum; Jøfnum svo saman við þá vér Varandi gleðidaga hér, Vér munum finna flesta, Sem Job lýsíngu sanna gaf, Segjandi: órósemi af Full er manns=æfin mesta.

4. En þar oss mætir allt það hér Undir stjórn Guðs, því meigum vér Ánægðir ætíð vera; Hvørn dag oss þvílíkt huggar traust: Hann blandar gleði efalaust I hvað sem hljótum bera; Hans alvís gæzka hagi manns

Til heilla jafnan greidir hans, Guds forsjón góð mun sanna; Hann leggur byrdi herdar á, Og hjalpar til ad bera þá, Styrkir krapt mæddra manna.

## 70. Sálmur.

Lagid: Mildi Jesú! eg minnist nú.

Hvad mædufull sem æfin er, Ánægju fáum ríka, Nær Guds forsjónar gætum vér, Gæzku og maktar líka; Hjartans gledi þad heilir merk, Hans dásemdar ad skoda verk; Þeinkjum um þecking slíka!

2. Daglega er fyrir augum manns Yndis-leg sjón Guds verka, Er kveikja mætti' í hjarta hans Helzt til Guds elsku sterka; En ad vanrækja þetta þá, Þad er ad gleyma og forsmá Drottins miskunsemd merka.

3. Hann hefir kærleik sýnt oss sinn, Svo vidurkénna mættum: Allt gjördi vel vid mig Gud minn; Margskyldt er líka gættum: Ad þad sem byrjad höfum hér, Hefir hann farsælt, þetta vér Med audmýkt játa ættum.

4. Heilbrygdi hann oss góda gaf, Gledi,

lyst, kråpt ad vinna, Hættunum vendi ótal af, Opt lét oss heppni finna; En þeim medbrædr-um, er vér þó Anægdir sjáum lifa í ró, Margsinns veitti minna.

5. En ef Guds dýrdar unun á Augunum gjørum renna, Fyllist af gledi þánkinn þá; Pad er oss sjálfum kénna, Ef med glæpun-um enn á ný J gáleysi framhøldum því, Ad forsmá føgnud þenna.

6. Pad skal því øll vor æfi-spor Oss gledja, styrkja, hressa: Ad Gud er tryggur vinur vor, Vill oss geyma og blessa; Hans med þacklæti þiggjum nád, Þeim Drottni felum enn vort rád, Er gætti allt til þessa.

## 71. Sálmur.

Lagid: Stridsmenn þá, høfdu krossfest Krist.

Undrun er stór, ad ecki vér Umvendumst glæp-um frá, Hvartil Gud sjálfur lid þó lér, Og ladar; eda má Fjøldi syndanna frá því hér Fæla? er betri þá Samvizku nøgun, sem oss skér, Enn sálar rósemd fá.

2. Eda, er syndin ordin ljót, Inngróin

brjóstid í, Svo ørdugt falli yfirbót? Á leingi framm Í því Halda? á Jesú fridar fljót Frelsunin krapta-ný Einskis metast? svo ei af rót Ydrumst og verdum frí.

3. Skal allt þad ómak, øll sú nád Onýtast, sem Gud vann Oss fyrir hafa? á hans rád Eckert ad vinna' á mann? Hans Andi verkar hjálp og dád Hjá þeim, er þyggja hann; Ef hans umhyggja er forsmád, Orsakar sálarbann.

4. Sjálfir í gløtun gaungum þá, Gjøld þýngri hreppum víst, Gledi er himnum yfir á Einum syndara' er snýst; Hinna nøfn eru einglum hjá Andstygd, fyrst betrast sízt; Sálaus í tøpun geingur sá, Guds nád er móti brýzt.

5. Hvár vill ránglátur finna frid, Forsvar og hæli bezt, Hér þegar skilur heiminn vid, Og hryggdin kvelur vest, En lukt er ríkis himna hlid, Hvørt hann afrækti mest; Goldin laun fyrir glæpa sid Gløtunin hønum sést.

6. Leitum því nádar nú í stad, Nú er ad ydtast mál; Gud vor himneskur! gef oss þad, Gétum heims varast tál; Fyrst ad þinn Sonur

fyrir oss bad, Og frelsti líf og sál. Lát oss hans njóta líknar ad! Leid vel! því braut er hál.

## 72. Sálmur.

Lagid: Gef þinni Kristni gódan frid.

Þar oss í øllu vitum vér Vera mjøg kraptaríra, Hugga má þad: ad yfir oss er Umsjón Guds nádar dýra, Sem øllum hlutum hefir ad stýra.

2. Vér vitum ei hvad mæta má Á morguns næsta degi, En hønum, sem ad alls rád á, Er gjørvallt hulid eigi, Hvad oss hendir á vorum vegi.

3. Einatt rádþrota verdum vér, Vorrar gæfu ad leita, En hans rád krøptugt ávalt er, Adstod og hjálp ad veita Þeim, sem ad vild hans vilja breyta.

4. Fyrst þannig ástand þeckjum manns, Því felum vér þá ecki Aform og rád í forsjón hans, Sem fótspor øll vor þeckir, Og hvørs nád makt ei nockur hneckir?

5. Ef oss hans nægdi vilji vel, Vér mund-

um ecki kvída, Heldur með ánægt elsku=þel, Okomnra tíma bída, Og treysta á hans for-sjón frída.

6. Hans vísdóm þeckja hvørjum ber, Hans treysta guddóms mætti; Hans gæzku þacka, góð sem er, Gledja oss jafnan ætti. Hans úm-sjón, er ad øllu gætti

7. Géf oss, Gud! náð þá: vorn ad vel Vanmáttinn jafnan sjáum, Og með audmjúkt og einlægt þel Að þinni miskun gáum, Svo hjá þér njóta nádar fáum.

8. Annara ei væntum eptir náð, Oss skal þín hjástod lynda; Veit þinni kristni krapt og dáð! Kvitta vid straffid synda! Gudlausra rádum gjør burt=hrinda!

9. Í vandrædum oss vísdóm géf, Að velja hid notamesta; Nær hrygdin slær, med hjálp ei tef, Hønd þín oss leidi bezta, Vid þig lát oss vor hjørtu festa!

## 73. Sálmur.

Lagid: Lof sé þér, Gud! fyrir lidinn dag.

Satt er það: mjótt er himna hlid, Heims

þessa torfær vegur; Samt skal hvør kristinn képpast vid Komast þá leid ótregur, Væri vor neyd svo þúng og þrá, Þad hún ei sigrast mædi, Og stødug stædi, Vórkunsemd nockur væri á Vorri óþólinmædi.

2. En nóg medølin høfum hér, Heims veg greidfærann gjøra: Létt verdur strid, ef lítum vér Til lífsins seinni kjøra; Óvinir vorir eru þrátt Óflugir, hinn þó stærri, Sem er oss nærri; Vorn styrkir Jesús veikann mátt, Vorn kross gjørir léttbærri.

3. Med réttu kunnum klaga sízt Kristindóms ørdugleika; Hvetji oss dæmin helgra víst, Þá hjartans traust vill skeika; Meiord og luckú láta hér, Líkt sem Krists strídsmenn gjørdu, Í hryggdum hørdu, Erum tilneyddir ecki vér, En høfum frid á jørdu.

4. Sjáum hvad Jesús sjálfur leid Sáluhjálp fyrir vora: Ónád frá fæding allt ad deyd; Ættum vér þá ad skora Oss undan kaleik, sem hann saup? Sorg heims því skulum bera, Vongódir vera; Hér þó oss gésist hryggdar staup, Hann kann þad sætt ad gjøra.

5. Rádvendnin skyldu' ad rækja sín, Rann-

gódann krapt oss gefur; En miskunsemdin, ó Gud! þín Áform gott blessad hefur, Efl oss mót syndum verjast vel, Veit hug, krapt, von, stadfesti, Lát varast lesti; Svo játum loks med sannfært þel: Sá mjói' er vegurinn bezti.

## 74. Sálmur.

Lagid: Gled þig, Gudssonar brúd!

Hvørr er eg? ættum vér Oss spyrja þrávalt hér: Tek eg góds framfør fljótri? Eda slækist í þverúd ljótri? En vér medkénna ættum, Os-sjaldan hérad gættum.

2. Þánkalaust líf burtleid, Látum ókomid skeid Eigi svo aptur fara! Oss tøkum gløgg-ann vara! Hyggjum ad: hvørt nafn berum, Hvartil skapadir erum?

3. Guds hefir gjørt oss hønd, Gaf hann oss líf og ønd; Vort hold er mold af moldu, Af mold nærist, leggst í foldu; Af útliti er skæra Ei þá sig verdt ad stæra.

4. Smeckbetri fædan fín, Og føgru klædin þín, Dýrmætid ei þitt eykur, Ertu samt dupt

og reykur; Andi þinn einnig tapti Eptirmind þess hann skapti.

5. Skynsemd er mjøg deyfd manns, Márg-spilltur viljinn hans, Hvad oss var helzt ákvardad, Og hefdi mezt um vardad, Er gjørt af manns vanmætti Midur enn vera ætti.

6. Þetta satt sønnum vér, Þá sjálfur Kristur hér Hradt kémur dóm ad halda, Og hvørjum laun sín gjalda; Þá mun sjást: menn á jørdu Margt gott forsóma gjørdu.

7. En þad er oss bezt vørn, Erum vér frelst Krists børn; Hylli Guds hann oss greiddi, Og himna farsæld tilreiddi: Ef vér ástunda vildum Ad breyta svosem skyldum.

8. Ydkum því ætíd hér Eins líf og Kristn-um ber, Eflum Guds æru sanna, Og velferd medbrædranna; Þá ánægd þaraf sáum, Er þecktum ei fyrr né sáum.

9. Svo munum sofna í frid, Samvizku dóm þann vid: Vér høfum verk, þau áttum, Vel gjørt, sem orka máttum; Gott rykti grøf þá prýdir, En Guds dýrd sálu skrýdir.

# 75. Sálmur.

Lagid: Lifandi Gud! þú lít þar á.

Ydrunarinnar akta ber Undandrátt vezt skadnæmi; Eylífdin sýna þó mun þér Þess miklu fleiri dæmi; Dumvendtur því margur mann Mjøg fljótt burtrickist, fyrr en hann Hugsadi hel adkæmi.

2. Er ei á þessum ímind vor? Er oss ei skyldt ad játa: Ofmørg framgeingum æfispor, Án þess af glæpum láta? Bidlund er Guds, hann burt ei sló Med brádum dauda oss, hvad þó Forþéntum margann máta.

3. Mót Guds advørun er stórt fár Ydrunarlaus ad sofa, Og reida sig á allmørg ár, Eda, sem Felix, lofa: Annad sinn snúa eg vil mér, Ydkud synd þverúd med sér ber, Sem veldur sálar dofa.

4. Eda hvørr lofad oss því fær, Enn tøkum sinnaskipti? Máské daudinn, hvørn hugdum fjær, Hradt oss í burtu svipti; Gétur ei skéd, ad Gud, hvørs raust Gjarnan forsmádum þánkalaust, Oss med útsnørun typti?

5. Hvørr veit, hvørt Andi helgur á Hjart=

ad vort klappar fremur? Sláum á frest ei ydrun þá Allt til þess daudinn kémur, Treyst-um ei því, sem óvíst er, Í dag fyrst rødd Guds heyrum vér, Adur enn nótt oss nemur.

6. Á morgun heyrum máské: þú, Mann-eskja! strax skal deya; Alítum oss því, eins og nú, Andláts stríd skyldum heya! Audmýk-jumst, hyllumst Herrans rád, Huggum oss svo vid Jesú nád! Hans veldi skulum hnegja.

7. Látum oss girndir vondar vid Vakandi jafnan strída! O Gud! þartil þitt legg þú lid, Ljá oss krapt þér ad hlýda, Og læra hvørsu lífid hér Laungum fallvalt en dýrmætt er, Svo ødlumst burtfør blída.

## 76. Sálmur.

Lagid: Jesú! þín minníng mjøg sæt er.

Ef vér hugleidum hvad sú var Heit elska, Jesús til vor bar, Upphvetur þad oss aptur á mót, Ad elska hann af hjartans rót.

2. Skylda einasta ecki er, Ad elska Jesúm Kristum hér, Heldur og ædsta audna manns, Ad lifa og deya' í kærleik hans.

3. Hvad mikid gott oss gjørdi hann, Svo gæti leidt til elsku mann? Hvad lét hans ó-gjørt líknin há, Sem lada oss til kærleiks má?

4. Hvad sýnir framar, hvørsu hans Heit var elska til syndarans, Enn þetta: ad hann ljúfur leid Lægíng, forsmán og bitran deyd.

5. Eymd fyrir dýrd hann á sig tók, Í stad sælu sér mædu jók; Fyrir ríkdóm og farsælt líf Fátækt kjøri og daudans kíf.

6. Grimt má því heita hjarta þad, Hvørt Kristum fær ei sannelskad; Efl oss, Jesú! svo elskum vér Æ þig, og skiljumst sízt frá þér.

7. Vort líf og daudi lýsi því, Vér lifum þínum kærleik í, An þess hér finna aungva má Anægju og huggun jørdu á.

8. Hvønær sem ginna hjartad vill Heimsins bleckjandi girndin ill, Hvørs þú synjadír sjálfum þér Sýn oss, og hvør vor skyldan er.

9. Ef í synd lifum, sýn oss hér Sára kvøl er þær juku þér; Ef møglum undir eymd og neyd, Oss minn þá á þinn kross og deyd.

10. Elskan þín leidi lífs vorn hag, Lika farsæli andláts dag, Athøfnum stjórni øllum, vér Aldrei svo skiljumst meir frá þér.

11. Heims elsku frá oss, Herra! fær, Hjörtun í dauda endurnær Med þeirri von: ad vér med þér Verdum, hvar eylíf sælan er.

12. Æ! þá yndælis unun há Enginn í veröld skinja má, Helzt sjáum því á himnum vér, Hvad sæll er sá, sem lifir þér.

## 77. Sálmur.

Lagid: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Sál mín! athuga svosem ber Sannann kærleika Jesú hér! Gack til Betlehem, gæt ad þar, Guds ljómi manns í líking var; Fylg hönum, sjádu sjálfs hans líf, Sem var hladid med eymd og kíf! Offóktur sýndi elsku hann, Auma styrkja og lækna vann.

2. Saklaus hann var, en samt þó leid Særíng, mannhatur, kvöl og neyd; Í Gethsemane gæt og sjá: Guds Son þar flatur hryggur lá; Blódsveitann, andvörp, bæn og tár, Bardaga daudans, hrygd og sár, Og hlýdni sem hann sýndi hér, Set allt vel fyrir augu þér!

3. Fjallid Golgatha gack svo á, Guds furduverk hid mesta sjá! Nakinn Jesús med nöglum

ber Negldur á trénu fastur er, Umkríngdur bödlum; æ! þad var Elskan, sem hann mest styrkti þar, Og þrýsti hönum þessa neyd Þalgódur lída fram í deyd.

4. Er þad möguligt, önd mín! nú Ei vid sjón þessa hræríst þú? Æ! hvörnig fær þér ervidt veitt, Ad elska Jesúm Kristum heitt? Fyrir sinn kærleik kýs hann þinn, Kanntú hann elska nockurt sinn Eins vel og forþént hefir hann? Hann vill kærleika einlægann.

5. Æ! kom, mín sál! og ei tef nú, Med eptirlaungun, bæn og trú, Ad elska Jesum meir og meir, Mannelska hans fyrst aldrei deyr; Vljuga legg þig vald hans á, Verkan kærleikans audsýn þá: Ad öll þín hegdan hér á jörd Helgist Jesú med þackargjörd.

6. Spyr þig vid hvad sem forma fer, Fyrst: hvört ad þetta samkvæmt er Kærleika þeim, þú kristinn bert Kristo ad greida skyldur ert? Minnstu! ad lífs þíns luckú hátt Lausnarans offri þacka mátt; Hans kærleik skoda þér ber því, Og þrávalt prísa veröld í.

# 78. Sálmur.

Lagid: Syrgjum vér ei sáluga brædur!

Lífs vors hér um lídandi stundir Lucka er stærst, ad vita sig undir Forsjón Guds vors framleidast; mætti Fulltreysta því Drottins hvørr ætti.

2. Skadar velferd sképnum ad trúa, Skinlitlar oss farsæld ei búa; Drottinn frelsar, hann veit hvad hagar, Háskann þeckir, kjørin bezt lagar.

3. Gæzkan hans er gjørn til ad stoda, Géfur hjálp í sérhvørjum voda, Opt slíkt reyndum ei þá oss nærdi Annara bjørg, hann lidsemd oss færdi.

4, Einrúms kvak vort aungvit þá virdtu, Gyru hans vorn kveinstafinn hirdtu; Hann vor tárin taldi, því ætti Treysta sálin hans líkn og mætti.

5. Oss umkríngir eymdin, sem grætir, Enginn veit hvad næsta dag mætir; Samt ei kvídum! gódri oss géfum Guds forsjón, og mátt hans ei efum!

6. Gud! þér felum gjørvallt vort hjarta,

Gef því skilníngs ljósið þitt hjarta; Viljann helga, vora geym sálu Vélum frá á braut lífsins hálu!

7. Afvegu, sem oss villa snarast, Oss kénn þú að þeckja og varast! Haldt oss við á hjálpræðis vegi Himins til, svo skeikum vér eigi.

8. Lít til vor í líknsemd af hæðum, Leið og styrk í veraldar mæðum; Allt hvað nytsamt og gott má kalla Oss, fyrir Jesum, láttu tilfalla.

9. Forsjón vér svo felum enn þinni, Fjör vort, líf, sál, æru, heimkynni; Oss þín miskunn ætíð bevari, Ertú, Guð! vor heilsugjafari.

## 79. Sálmur.

Lagið: O Guð! heilagur! heilagur!

Erfiði dagsins eptir hér, A nóttunni þá hvíldumst vér, Rétt sem andvana erum, An tilfinníngar einnin þá, Um þann háska, sem granda má, Aðgæzlu aungva berum; Oslíkt Er slíkt, Oss nær sinnum Ei né finnum Ast Guðs blíða, Eður hans bendíngum hirðum hlýða.

2. Þá er sem sofi sinnið allt, Til sannra dygða tregt og kaldt, Háskann aðgætir eigi;

Líkt sem í draumi lífid hver, Lifdum burt hanns-ig mørg ár vér, A vorum æfi vegi; Því mál, Mín sál! Þér má heita Þesþum neita Þrjózku dofa, Varastu leingur í synd ad sofa!

3. Vakna! þig rødd Guds vekur nú, Verk-anir Andans adgæt þú, Lát synd ei svæfa frem-ur; Gef þinni skyldu gætur ad, Guds raust fyrst hér nú skipar það, Hvørr veit nær kallid kémur? Mjøg er Hætt hér; Øll lífs-tíd Er eins og strid, Því átt' ad vaka, Lífs ef kór-ónu í laun vilt taka.

4. Illa burt sóud æfin þín Angrar þig mest í daudans pín, Hvørt kvøld því hér ad gættu; En, vor Gud! þína adstod vér Ei meig-um missa neinn dag hér, Hag vorn med hjálp því bættu! Oss vek, Og rek A burt synda Srefninn blinda; Send þinn Anda, Tímann adgæta og verk vor vanda.

5. Þitt ord, tiptanir, elska, vægd, Øll þol-inmædi og gæzku nægd, Oss til umbótar hvetji! Vér skulum ætíd vaka þá, En verdi svo, oss lífsbraut á Andvaraleysid letji, Þín hønd Þá ønd Vekji, leidi, Vel tilreidi, Vér svo fáum Sigur í stridi og sælu náum.

## 80. Sálmur.

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Þeir sem løstunum lifa í, Lausnara sinn óvirda, Falla í hefnd Guds fljóta því, Fyrst ei um nád hans hirda.

2. Vonzku þá Jesú vorum mót Vørumst med kærleik heitum, Elskum hann, gjørum yfirbót, Eptir hans dæmi breytum.

3. Ad sønnu fyrir synd hann leid, Svo réd og dæmi veita Oss, hvørnin vér um æfiskeid Eptir sér skyldum breyta.

4. Frá því hans dæmi fylgja vel Fors heims oss aldrei hrædi, Mót hatri sýnum hógvært þel, Mót hreckjum þolinmædi.

5. Eins og hann lidum ljúfir vér, Hvad lætur Gud tilfalla; Ødrum til heilla, eins og ber, Utréttum skyldu alla.

6. Þykist Gud tipta þurfa oss, Þolinmódliga breytum; Sem Jesús tøkum sendan kross, Sjálfum oss vel afneitum.

7. Ef gráta þurfum eins og hann, Á Drottins hjálp þá treystum; Ef yfirgéfa ástvin kann, Oss vid Guds nád hughreystum.

8. Ef yfirgéfnir verdum vèr, Vors Jesú hróp hugleidum: Gud minn! því hèfir gleymt þú mèr? Guds miskun oss á reidum.

9. Eins þegar deya eigum vèr, Húd vora felum Drottni, Hann sigur, krapt og líf oss lèr, Líka þó hèrvist þrotni.

10. Af þjáníng, Jesú! þinni mèr Pau beztu not virzt greida, Hvørt um blóm edur þyrna þèr Póknast mig hèr ad leida.

11. Eg geng óhultur, hønd vid þín Hèr braut vegferdar minnar; Sjálfur medtak þú sálu mín Sídan til dýrdar þinnar.

## 81. Sálmur.

Lagid: Fadir vor sem á himnum ert!

Eins og samfrelstum brædrum ber Byrjar hvørr annann elskum vèr; Oss hefir Jesús elsk-ad heitt, Utgéfid sig og margt gott veitt; Hvad goldid fyrir gæzku háns Géta lítilnýtir krapt-ar manns?

2. Ef vèr af rèttri ást til hans Adstodum þarfir náungans: Húngrádan sedjum, sárþyrst-ann Svo dryckjum, klædum nakinn manni

Virdir hann þad gjört sjálfum sér; Svoddan gódverk því stundum vér!

3. Jafni fyrir alla Jesús leid, Jafndýrt því mat hann allra neyd; Ættum þá brædur vora vér Vanvirda, sem hann eignar sér? Hvornig tilheyra Kristo kann Kærleika sá ei æfir mann?

4. Eins hjartagódir og hann var, Offrar tillátum miskunar; Oss þitt hugarfar innræt þú, Ædsti kærleiki, vor Jesú! Án þinnar nádar er vort géd Omjúkt og vanþakklátt þarmed.

5. Enn lát þinn kærleiks anda vel Upplífga dofid hyggjuþel, Svo ydkum verk og velgjörd þá, Vídfrægja þína dýrd er má; Lát oss med hógværd ljúfri hér Leida til þín þann villtur fer!

6. Mörg tækifæri lífs á leid Ljást ad bjarga þeim særir neyd, Hrasandi stydja, hrumum fá Huggún, ef legdum stundum á, Einnig med bænum vorum vér Víst gétum stodad auma hér.

7. Æ, láttu, Jesú! alla tíd Oss þessi stunda verkin fríd! Dygdum géf fylgi blessun bezt! Bænheyr oss nær áliggur mest! Eptir-

þreid hjálp ef hlotnast má; Heidrast þitt nafn og dýrkast þá.

## 82. Sálmur.

Lagid: Oldúngar Júda annars dags.

Guds nádarmedøl mønnum léd Mørg eru, kvøptug líka med, Svo skuldin finnst oss sjálfum hjá, Ef sanna þá Kunnum vér eigi farsæld fá.

2. Allt hefir Gud þad útrétt bezt, Er oss til bjargar þénti mest, Allar velgjørdir gjafarans, Og gæzkan hans, Til sáluhjálpar midar manns.

3. Jesús leid oss til lausnar hér, Lausn þá forsmádum tídum vér; Hvad til betrunar helzt oss dró, Vel hann tilbjó, En vér forherdtumst einatt þó.

4. Himin oss veita vill hann sinn, Veginn þó einatt kjósum hinn, Er til gløtunar áfram ber, Um slíkt, því ver! Mun margur brixla sídar sér.

5. Þvílík ákløgun þeirra þín Þýngir, nær líta heimsku sín, Jesú blód hrópar hefnd og

þrá, Það hryggir þá, Að þeckja lausn, en aungva fá.

6. Kostur er oss að ydrast enn; Í burt þó Guð oss ryckti senn, Dóm þann réttvísann reyndum vér, Því ráð hans hér Lund vór forsmádi þrjózku þver.

7. O Guð! oss þyrmi ást þín blíð, Enn til betrunar gef oss tíð; Syndirnar hjørtun særa hrædd, Af sorgum mædd, Fyrir píſl Jesú gjør þau grædd!

8. Æ! lát kvøl Jesú á oss víst Ávaxtarlausa verda sízt; Allra helzt nær hér førum frá, Þitt fullting ljá, Að raust svo þinni gjørum gá.

9. Fyrir oss, Jesú blídur! bið, Beigdu vor hjørtu að dygda sið, Þín pína sé vor huggun hér, Þá hrygdin sker, Dýrmæt styrking nær deyum vér.

10. Mót kløgun synda, mædu og neyd, Mót hrædslu grafar, sótt og deyd, Styrki oss bezt þinn kraptur klár, Og késsi sár, Svo fáum dýrd um eylíf ár.

## 83. Sálmur.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín!

Offtjaldan høsum hugleidt vér, Hvad merg vor synd, en þúngt straff er, Sem þær kunna orsaka; En svo þánkalaust eyda tíd, Er hætta stór, því vøkt um síd Samvizkan sárt mun klaga.

2. Eymd sína sál þá alla sér, Og hvad Guds hegníng þúngbær er, Og þó slíkt eunþá bídi, Mun vor rósemi minka skjótt, Nær myrk á-fellur daudans nótt, Og þjá ofþúngur kvídi.

3. Pá synda-fjøldinn þjakar lund, Pá skélfir hels og dómsins stund, Pá mínkar lima máttur; Pá géfst ei hjarta huggun nein, Hefir ei rósemd nokkurt bein, En þreyngist andar-dráttur.

4. Hvar mun þá finnast hæli og nægd? Hjá Jesú Kristi písla nægd, En annarstadar eigi; Hvad þó samvizku svæfdum hér, Svølun þá ei né gledi lér, Á þeim ángistar degi!

5. O! því flýum vér ecki þá Í Jesú skjól, og leitum hjá Honum hjálpar og ráda? Því er hans líf um æfiskeid Ecki vort form? svo loks í deyd Fáum ad njóta náda.

6. Ef þú ei hrærir hjørtun vor, Heilagi Guð! vor æfisþor Í gálensi framgaungum; Lát oss því hræðast hegníng þín, En hugga oss við Jesú þín, Hlíf vel við hefndum straungum!

7. Hans frelsun sé vor huggun trú, Hans vegna synd oss forlát þú, Lífs beirun lát oss sýna! O Jesú! líf og upprisan! Ásetníng géf oss stunda þann, Svo eignumst elsku þína.

## 84. Sálmur.

Lagið: O Drottinn allsvaldandi!

Litla dvöl líf má kalla, Lítil er von vér skinjum þá Himinsins eylífð alla, Ár þau nein tala' ei greina má; Því skaltu Þannig breyta, Þitt með trú Hlaupið þreyta, Að eylífð sú Yndæl megi heita.

2. En þó vér ecki sjáum Útvaldra sælu himnum á, Af ritníng fríða fáum Fullvissu samt um gleði þá; Himins þó Huld sé kæti, Himna ró Sá aðgæti, Hvar oss bjó Herrans elska sæti.

3. Sjáum, hvað vorra vegna Born Jesúm

hefir kostad þad: Kvøl, tár og titran megna, Ad tilreida oss þann samastad; Þaraf sést: Eylífd alda Yndid mest Lér margfalda, Þar verdkaup bezt Vard fyrir hana' ad gjalda.

4. Finnist laung rauna reisa, Rennum aug- um til himins þá; Má kallast rétt markleysa Manns leingsta tídin jørdu á; O! hvad fljótt Arin þrjóta, En í nótt Máské skjóta Banafótt Brædur vorir hljóta.

5. Fjørshraustur enn veit enginn Hvørt audnast morgun rodinn klár, Heill kvølds til hvílu genginn Hét opt ad morgni kaldur nár; Margur vor Fær ad finna Feigdar spor Lima sinna, Er deyfa þor, Og daga-kvøld á-minna.

6. Hvørr kann svo hér tilfinna, Ad hugsi ei strax um eylífd hann? Vor er svo frek fá- sinna, Fast er hjartad vid heim þennan; Hjá oss er Hvør ein stundin, Er hratt þó fer, Létt- væg fundin, Sem væri hér Vid jørd eylífd bundin.

7. Þann sannleik oss innrættu, O Gud! ad vølt er lífsins stund, Styrk oss í heimsins hættu, Ad hlýdnast þér, en vora lund Vísa

gjør, Vel svo kynnum Vanda fjør, Heim ei sinnum, Sælukjør Svo um eylífð finnum.

## 85. Sálmur.

Lagið: A Gud alleina.

Sú hugsun hlýtur Hræðä þann vondur er, Að Gud allt litur, Allt heyrir, skinjar, sér; Hann má hrygð bera, Þar hatur, flærð, ill ráð, Vert hann ljóst vera Vizku, er alls fær gáð; Af því íllt mun uppskéra Sá illu hefir sáð.

2. Þará það bætist, Að þessa Drottins vald Aldrei upprætist, Eylíft kann veita gjald; Enginn umflúið Eylíft hans straffið fær, Ei aptur snúið, Eptir það dauðinn slær; Ottalegt er tilbúið Afgrunn og kvøl frábær.

3. En ef Guðs hræðir Alvizka vondan mann, Hún gleði gæðir Guðrækinn sérhvørn þann, Er vild hans vinnur; Vert því glød, sála mín! Fyrst náð hans finnur Forsjálniráðvønd þín; Hylli heims met þú minnur, Sem mislynd er og dvín.

4. Er það sönn sæla, Sárt ef þig baktal skér; Sem Job mátt mæla: Mitt vitni á

himnum er; Nær hrygd ad hrýtur, Heims last og óblídan, Þú þreya hlýtur Þinn vin og hjálparmann; Ast Guds þér ei samt þrýtur, Hvør aldrei bregdast kann.

5. Nær heill frá-hallar, Hans forsjón nægir þér, Þá leint þú kallar, Þín andvørp bezt hann sér; Ef tekst á hendur Umsorg vesælla nú, Hann þér hjá stendur, Hvad gott veit adhefst þú; Nær daudinn svo er sendur, Sízt bregst hans nálægd trú.

6. Hér hugsun slíka, Herra! oss innræt bezt, Og óttast líka Æ nálægd þína mest; Hún frá synd haldi, Hún vari freistni vid; Hún huggun valdi, Hún veiti styrk og lid; Hún verdkaup hlýdni gjaldi Himneskann dýrdar frid.

## 86. Sálmur.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Nú er endtur enn einn dagur Af leid vorrar heimfarar, Og í vændum annar fagur, Ef oss til þess Gud sparar; Pílogrímar heitum hér, Hins tilreida lífs oss ber, En þótt hjartad óttast meigi, Ad nær gætum þessum vegi.

2. Hvørsu margir hafa fetad Hann og vilst af réttri braut, Fødurland ei fundid gétad, Fallid svo í neyd og þraut; Vort fyrst hold er vonzkuríkt, Vér meigum og óttast slíkt, Ógrar leidar ordugleiki, Ill dæmin og mannsins veiki.

3. Vor Jesú! sem vegfarandi Varst á jørd, oss stattu hjá! Villustiga varna grandi, Vér svo stefnum himininn á; Vilji hjørtun véla af leid, Villu fordi høud þin greid; Ogni dauda dalur strángur, Dýrdar stilli ljóminn ángur.

4 Vor mún taka vegferd enda, Vér nær eignumst fødurland; Þángad skal vór þánki venda, Þegar heimsins mædir grand; Tekur hlutdeild sønn trú sér J sælu, hvør oss búin er, Og á jørdu ímind sjáum Endurgjalds, er sídar fáum.

5. Elska Krists og nád Guds neita Nóga styrking sálum lér, Til ad stunda hans børn heita, Heims á reynslu skeidi vér; Søndum skylduverk sem má, Verdlaun dýrdar lítum á, Því leingst óskum þar ad búa, Þángad leungun øll skal snúa.

6. Géf oss náð þér, Guð! að hlýða, Géf! að kærleik stundum á, Veit oss dáð með varengð stríða, Svo vilja lærum þíns að gá; Lífs þá skeiðið endað er, Inn svo leið í dýrð hjá þér, Hvar oss þú það hnossið géfur, Hér sem truin vonað hefur.

## 87. Sálmur.

Lagið: Hvørr sem ljúfann Guð lætur ráða.

Ef velgjørnínga Guðs aðgættum, Sløggt svosem Davíð jafnan vér Eins og hann segja ginnig mættum: O Guð! hvað skal eg gjalda þér? Ef vel aðgætum vors lífs kjør, Velgjørðir hans enn sjáum gjør.

2. Vor dáðgæzla og vanþøck stríða Velður: hans gæzku ei er gáð; Eingin stund kann svo æfi líða, Ei megi þreyfa á Drottins náð; Hvørn andardrátt, sem drøgum vér, Drottni þacklæti fyrir ber.

3. Af því vér nú í auðmýkt segjum: O Drottinn! hvað skal greiða þér? Fyrir hvørn dag, sem hérna þreyum, Hjartans þacklæti vort því er Eingin borgun fyrir alla náð, Omaklegum sem þú fékkst tjáð.

4. Skal vort framferdi skuld þá gjalda? Sképnu framkvæmd er án þín veik; Skulum vér þá um aldir alda Ástar þér borga mikilleik? Jafnvel sjálf eylífð ofstutt er Allt skyldugt lof ad greida þér.

5. Hvør ein sképna á himni' og jørdu, Hvad skal eg gjalda? spyrja má; En, hvad opt manna hjørtun hørdu Herrans velgjørdum lítt ad gá, Vanþakka gæzku Guds og mátt, Gleyma vanmætti sínum þrátt.

6. Hvørsu naudsýnlegt er þá eckí, A. mót velgjørdum hans og náð, Overdugleik sinn ønd vor þecki, Audmjúk svo fái skyldu gáð; Æ til þacklætis, ó Gud! hér Allt vort framferdi helgist þér.

## 88. Sálmur.

Lagid: Einn Herra eg bezt ætti.

Ef oss adspyrja hirdum: Hvørr ertu sképnum hjá? Og vel fyrir oss virdum Vor kjør; hvad finnum þá? Ad erum aska, reykur, Er vindblæ stendst ei hót, Þó vogar ormurinn veikur Vild Guds sig setja' á mót.

2. Hann er þó sá sem heldur Hnöttum veralda við, Kóngs ríkja kjörum veldur, Kann öllu setja mið; Æ! því vill upp hann leita Svo aumar skepnur hér? Má hans dýrð meiri heita Með því ef frelsumst vér?

3. Eða, hvað mun hann missa? Þó mættum tapast brátt, Alveldis á hann vissa Otal þegna, sem hátt Verk hans og lof víðfrægja; Vit þú því, sála mín! Af ást hans umsjón lægja Ofan sig vill til þín.

4. Dýrð sé þér, góði Drottinn! Dásöm þín verk og ráð Sýna þess sannleiks vottinn, Sé þín stjórn speki og náð; Eptir synd oss ei geldur, Ei brigðar loford sín, Minnist miskunar heldur Mannelskan blessuð þín.

5. Alyktan elsku þinnar Undrandi minnumst á, Að til útvaldra hinna Oss kallar, veik hálmstrá; Hræðilegt má þá heita, Hardt ef forsktum nú Himinsins dýrð háleita, Hvörja oss býður þú.

6. Svo leingur sízt skal breyta, Sálar gagnsemd forsmá, Viðleitni skulum veita, Vorri ákvarðan ná; Þú födur-faðminn breiðir,

Flýtum oss þennan í! Vænst hnoss þú vel tilreidir, Vér-stundum eptir því.

7. Hértil skal hvørn dag keppa, Hjálpi oss nád þín góð Pá-sælu helzt ad hreppa, Hvørja þitt keypti blód! O Jesú! allt heims mæti Vnd litid skoda má, Eylífs lífs eptirlæti, Oss lát því þrá og fá!

## 89. Sálmur.

### A Jólunum.

Lagid: I dag eitt blessad barnid er.

Verk Guds kunngjøra vísdóm hans, Vald, dýrd og máttinn ríka: Mikid Guds verk er mindan manns, Mikid heims bygging líka, Mikid ad ráda himins her, Af himni braud og vatnid hér Af hardri hellu leida; Øll verkin Drottins vitna þad, Ad vill hann sæld og alfagnad Um allt sitt veldi útbreida.

2. Fremst er þó holdgan Frelsarans, Guds furduverkid hærsta: Hér má vel skoda vísdóm hans, Vald, nád, og almátt stærsta, Sannleiks trúfesti, framkvæmd, rád, Frábæra elsku, þar á lád Son hans er sendur nidur; Upp-

spretta lífsins opnast góð, Af henni flýtur heimsins þjóð Hjálpræði, heill og fridur.

3. Tilbid med undrun hátign hans, Hans makt þú skyldir hrædast, Sém til velferdar syndugs manns Soninn lét holdi klædast; O! hvad skyldt er þú elskir hann, Allrar veraldar Frelsarann, Hønum þjónir og hlýdir; Hans lærdóm grundir heims um leid, Hans vilja stundir, sorg og neyd, Eins og hann, ljúfur lídir.

4. Af øllu hjarta þacka þú Þessa Guds stóru mildi! Frelsarans komu fagna nú, Sem fædast madur vildi; Velkominn, Jesú! vert oss hér! Vor sál skal taka' á móti þér Med helgri hjartans kæti. O Gud! þín verkin eru stór, Af eingla' og manna saungva kór Þér ber eylíft þacklæti.

## 90. Sálmur.

### A sídasta dag ársins.

Lagid: Gæzku Guds vér prísum.

Ef skyldt er ad vér gættum Allan vorn lífsins hag, Ei sízt þad gjøra ættum Arsins

seinasta dag; Stöldrum því við um stund! Veg förnum vel adgáum, Víst er ad þaraf fáum Gagnsemd, er gledur lund.

2. Hvad fáum helzt ad líta Hér á útkljádri tíd? Guds ást og gæzku nýta, Guds velgjörd fyrr og síd, Guds forsjón gaf oss frid: Hún leiddi, hlífdi, fæddi, Húsaskjól veitti, klæddi, Svaladi, sendi lid.

3. Umgeingnis unun veitti Ástvinum kærum med, Hrygdum í blessun breytti, Bölþjádra nærdi géd, Gudsordi gódu af; Hulin afskipti hafdi Hags vors, sem þörfin krafdi, Urrædi gód svo gaf.

4. Hvörr er? sem enn fær eigi Eins og María sagt: Minn Gud á mínum vegi Mikid hefur tillagt, Hans nafni heidur ber; Af hans nád önd mín kætist, Af hans rádum mér bætist Hvad eitt, sem heill mín er.

5. Hvad segir hvörs samvizka, Höfum vér forþént slíkt? Er ei hægt á ad gizka, Edli manns vonzku-ríkt Braut opt Guds bodum mót; Undir dóm oss ei krefdu, O Gud! en fyrirgéfdu Brot vor og lýti ljót.

6. Í Jesú nafni oss náda! Nád þína á

enda, þú! Ei lát med ári útkljáda, En gæzku send oss nú Nýa med Nýársdag! Nýtt líf oss lát fram leida, Lof nýtt þitt vel útbreida! Ný krýni heill vorn hag!

## 91. Sálmur.

### Á Nýársdag.

Lagid: Lofid Gud!

Til þín er, Trúr Drottinn himnum á! Varp-ad mér Módurlífinu frá; Svo med Davíd segja kann Sérhvørr vor gladur, Guds forsjón því geymdi hann: Gud sé lofadur! Hann oss ad Ár lidid gætti, Gaf sérhvad, Hag vorn sem bætti, En allt þad Illa-upprætti, Umsjón hans og aldrei brást, :,: Frá því sáum fyrst heims ljós, Fram allt til þessa. :,:

2. Eylífd frá Alyktad hafdi hann, Um oss sjá, Eins og hvør sanna kann: Daga, fæd-ing, stétt og stand, Stjórn hans útmældi, Hlífdi slisum, hefti grand, Og heims-flærd, er tældi; Vøggu í Vel ad oss gádi, Upp frá því Og vernda nádi, Ferst og ný Forsjón

hans tjádi Nýa nád hvørn nýan dag; :,: Afstýrt hefir sveingd og sótt, Er suma mjøg þjádi. :,:

3. Forsjón hans Fulltreysta meigum, því Lífs-kjør-manns Leika hans høndum í; Hvørt hann sendir gledi' eda grát, Gott er því taka; Hann á sínum hefir gát, Hvad má þá saka? Hlýdnir þá Hønum vel trúum, Syndum frá Samhuga snúum, Hans umsjá Ohultir búum Undir þetta ár sem hin; :,: Ef vér lifum, er hann vor, Eins þó vér deyum.

4. Líf og ønd Leggjum vér gladir því Þína hønd, Þú, Gud vor Fadir! í; Lát, í Jesu nafni! nú Nád þína kæra Geyma hag, eign, hús og bú, Háskann burtfæra; Medan fá Meigum enn hjara, Vert oss hjá, Veit styrk, Bevara, En nær frá Eigum hér fara, Leid oss inn í ljós til þín! :,: Þar um árin eylíf sæl Oss géf þig prísa! :,:

## 92. Sálmur.

### Á sídasta vetrardag.

Lagid: O. Gud! heilagur! heilagur:

Sæll er sá hlífd Guds hvílir í, Høfum vér

bezt ad segja' af því Þenna vetur afþreidann; Vér kvíðum fyrir hans voda tíd, Vardveitti oss þó hønd Guds blíd, Og med líknsemi leid hann; Sinn frid, Sitt lid Gaf, neyd bætti, Grand upprætti, Og grát þá mæddi, Menn, dýr og fugla vel fæddi og klæddi.

2. Forsjón hans, ei forsjálni vor, Fóta vorra hvørt leiddi spor, Umhyggju ól fyrir þørfum, Med vina sambúd gladdi, greid Gaf úrrædi í þraung og neyd, Styrkti í skyldustørfum; Hvørr bad, Hann þad Ei svo veitti, Eda breytti Eymd í gledi, Lítilát bæn nær þess leita rédi?

3. En, er Guds fødur umsjón blíd Af oss verdskuldud þessa tíd, Og hvad oss gott réd henda? Æ! fyrir hvad mørg afbrot ljót Ættum vér nú ad gjøra bót Vid þessa vetrar enda! Nád hans Neyd manns Gód því bætir, Glæpi' upprætir, Gott ef ydjum, Og fyrir Jesum Gud forláts bidjum.

4. Á þessum vetrar enda hér Oss til þín, Gud! því sníum vér, Lof þér fyrir lífsstund greidum, Og um syndanna uppgjøf þig Í Jesú nafni hvørr um sig, Af hjarta hryggvir

beidum; Veit náð, Dygð, dáð, Løstu hata, Lifnad hata, Leid oss, Fadir! Svo endum vetur í Gudi gladir.

## 93. Sálmur.

### Á fyrsta sumardag.

Lagið: Lof sé þér, Drottinn dýri!

Náttúrlegt víst má vera Við sumars byrjun hugsum vér: Hvad mun ad høndum bera? Hvørnig skal líða í sumar mér? Mun eg heill út þad enda? Edur deya hér frá? Hvør kjør munu mig henda? Hvada luckn eg fá? Spurníngum víst svo vøndum Veit enginn gésa ans, Utan Gud, í hvørs høndum Eru lífdagar manns.

2. Han skiptir vorum høgum, Hann skamtar þad oss mæta kann; Hann sumarsól og døgum Setur gáng, kjør, og hvørn einn mann Leidir; þá lucku gésur, Sem lífi hollust er, Vægir og vorkun hefur, Nær veikir hrøsum vér; Æ! gott er á hann trúa, Einsetjum oss því ríkt Til hans af hjarta snúa, Og hugsum med oss slíkt.

3. Eg skal af hjarta hreinu, Hér með ráðvendni ljóst og leint, Varast í verki neinu Vorn Guð styggja, en sinnið hreint Geyma og vel mín gæta, Gæfu-hag stunda minn, Brest þeirra aumú bæta, Búksorg varast hvört sinn; Umflýa allt sem heitir Oleyfilegt, en hitt Ydka, sem ánægð veitir, Og eflir gagnið mitt.

4. Þegar vér þettað gjørum, Þá gleður og sú vonin fríð, Að hér, ámeðan hjørum, Høfum farsæla æfitíð. En þér, eylífi Faðir! Efni vor, hag og ráð, Felum vér fullhugaðir, Faðma oss þinni náð; Géf sumar gott til enda, Géf frið og ánægð hér, Lát haf, jørð, himin senda Heill oss, svo blessunist vér!

# Registur

## yfir Sálmana eptir Stafrofs-röd.

Blads.

Ad gladir sjáum endíng dags . . . . . . . . . . 6
Ad morgni dags, þá augum vér . . . . . . . . . 33
Ad óska sjálfum sér . . . . . . . . . . . . 82
Ad öll heims mæda hverful er . . . . . . . . . 86
Af því stutt mid er tímans tært . . . . . . . . 46
Aldrei nóg vér adgætt fáum . . . . . . . . . 91
Aldrei vort ástand yrdi . . . . . . . . . . . 4
Allmörg tilfelli hér í heim . . . . . . . . . 73
Aumt mannsins ástand yrdi . . . . . . . . . . 64

Bezta lífsregla oss þad er . . . . . . . . . . 97
Bænin dýrmætast medal er . . . . . . . . . . 74

Dagurinn, sem nú endtur er . . . . . . . . . . 42

Ef ad vér vissum allra nú . . . . . . . . . . 92
Ef eg Gud eina . . . . . . . . . . . . . . 47
Ef morgundagsins vegi vér . . . . . . . . . . 7
Ef oss adspyrja hirdum . . . . . . . . . . . 139
Ef ritníng lesum helga hér . . . . . . . . . . 93

Blads.
Ef skyldt er ad vér gættum . . . . . . . . . . . 142
Ef velgjörnínga Guds adgættum . . . . . . . . 138
Ef vér hugleidum, hvad sá var . . . . . . . . 120
Eins og samfrelstum brædrum ber . . . . . . . . 128
Engin er hér stund . . . . . . . . . . . . . 80
Er hannig ástand manns . . . . . . . . . . . 9
Erfidi dagsins eptir hér . . . . . . . . . . . 125

Gæti eg þóknast Gudi hér . . . . . . . . . . . 44
Gæti eg þess: Hvorr er Gud og eg . . . . . . . 53
Gudsbarn ad vera, er gæfa há . . . . . . . . . 76
Guds forsjón þeckja þýda . . . . . . . . . . . 61

Hvad eitt er sjáum ár og síd . . . . . . . . . 100
Hvad er manns líf í heimi? . . . . . . . . . . 25
Hvad fær oss ollad ángistar? . . . . . . . . . 55
Hvad mun valda vér svo efum . . . . . . . . . 59
Hvad mædufull sem æfin er . . . . . . . . . . 111
Hvad mörg stund tapast hjá oss hefur . . . . . . 71
Hvonær, sem lít eg himininn . . . . . . . . . . 67
Hvorn dag ber, hugsum vér . . . . . . . . . . 36
Hvornig sem vér hugleida náum . . . . . . . . . 62
Hvorn þánka oss í hjartad inn . . . . . . . . . 11
Hvorr dagur þjáníng hafa fær . . . . . . . . . 70
Hvorr einn þá slucku hefur . . . . . . . . . . 104
Hvorr er eg? ættum vér . . . . . . . . . . . . 117

Í nýa reynslu lífs um leid . . . . . . . . . . 35
Jesú líf ljósust var . . . . . . . . . . . . . 58

Blads.

Lífs vors hér um líðandi stundir . . . . . 121
Lífs vors er kallan, lucka' og mið . . . . . 89
Litla dvöl líf má kalla . . . . . 133

Meðbræðra vorra vinskap hér . . . . . 106
Með oss tilgángur Guðs er sá . . . . . 15
Mig gleður Drottins mildin blíð . . . . . 49
Mig til að losa mest við heim . . . . . 27
Mína skyldu að minnast á . . . . . 30

Náttúrlegt víst má vera . . . . . 147
Nú er endtur enn einn dagur . . . . . 136
Nær sól og allann himins her . . . . . 24

O! hvað ástand manns í heims mæðum . . . . . 18
O! hvað í blindni eg hef þrátt . . . . . 22
Offjaldan höfum hugleidt vér . . . . . 132
Ottinn á Drottni innrætt fær . . . . . 16

Sá tími kémur eittsinn að . . . . . 85
Sál mín! athuga svo sem ber . . . . . 122
Sátt er það: mjótt er himna hlið . . . . . 115
Sérhver lífsdagur leidt oss fær . . . . . 56
Skyldt er lof þeim Guði gjalda . . . . . 28
Stór stjörnarmerki Skaparans . . . . . 19
Sú hugsun hlýtur . . . . . 135
Sæll er sá hlífð Guðs hvílir í . . . . . 145

Til þín er, trúr Drottinn himnum á! . . . . . 144

Blads.
Um hvad skal optar hugsa mann . . . . . . . . 39
Um þad áhyggju bera . . . . . . . . . . . . 66
Undran er stór, ad ecki vér . . . . . . . . . 112
Upphaf og endir æfi manns . . . . . . . . . 3

Vart finnst svo vondur mann . . . . . . . . . 21
Vér Jesú vorum . . . . . . . . . . . . . . 98
Verk Guds kunngjøra visdom hans . . . . . . . 141
Vér kvørtum yfir þrávalt heim . . . . . . . . 10
Vér óskum oss og adrir menn . . . . . . . . . 38
Vid burtfør búast sinni . . . . . . . . . . . 63
Vor borgarréttur er viss himnum á . . . . . . 50
Vorn vanmátt, vér sjáum helzt af þvi . . . . . 78
Vorri hrygd einatt valda má . . . . . . . . . 95
Vors lífs vidurhald er . . . . . . . . . . . 103
Vort líf er dásemd vors Guds hærsta . . . . . 32
Vort líf er sífeld sorg og þrá . . . . . . . . 109
Vorrar náttúru veiki . . . . . . . . . . . . 13

Ydrunarinnar akta ber . . . . . . . . . . . 119

Þar oss í øllu vitum vér . . . . . . . . . . 114
Þeir, sem løstunum lifa í . . . . . . . . . . 127
Þessi dagur, sem Drottinn mig . . . . . . . . 41
Þessi skal vera vor stund nú . . . . . . . . . 108
Þó Guds velgjørdir þádar . . . . . . . . . . 88
Þó virdist hulin vor tíd hér . . . . . . . . . 101
Þú, sál! hyggst hvíld ad finna . . . . . . . . 65

# Innihald Sálmanna.


Lofgjørd og bænir vid misseraskipti; Sálmur No. 1. 2. 92. 93.
— — — — ára=skipti . . . . . . 90. 91.
— — — á Jóladaginn . . . . . . . . . . 89.
Um traustid á Gudi . . . . . . . . 3. 10. 31. 41. 62.
— Gudrækni (Gudsótta) . . . . . . . 4. 23. 24. 38.
— vareygdarsemi . . . . . . . . . . 5. 20. 61. 86.
— holgædi . . . . . . . . . . . . . . 6. 22. 45.
— lífsins Ofstødugleika . . . . . . . . 7. 16. 29.
— útvaldra rósemi á himnum . . . . . . . . . 8.
— Guds forsjón og handleidslu 9 17. 35. 39. 47. 52. 70. 72. 78. 90. 91. 92. 93.
— heinkíng eylífdarinnar . . . . . 11. 63. 64. 84.
— Guds heims=stjórn . . . . . . . . . . . . 12.
— hacklætid vid Gud . . . . . . . . . . 13. 87.
— rádvendni . . . . . . . . . . . . . . . 14.
— audmýktina . . . . . . . . . . . . 15. 34.
— ánægju og rósemi . . . . . . . . 18. 60. 66.
— mannsins andliga veikleika . . . . . . . . 19.
— árvekni . . . . . . . . . . . . . . . . 21.
— elskuna til Krists . . . . . . . . . . . 25.
— gledilega von eylífdarinnar . . . . . . . . 26.
— Guds velgjørnínga . . . . . . . . . . . . 27.

Um Guds gæzku og miskunsemi . . . . No. 28. 38.
— vingan Guds . . . . . . . . . . 30. 44. 49.
Umþeinkíng daudans . . . . . . . . . 36. 53. 54.
Um Jesú líferni og dygdadæmi . . . . . . 37. 80.
— nytsemi mótlætínganna . . . . . . . . . . 40.
— góda samvizku . . . . . . . . . . . . . 42.
— Guds allstadar=nálægd . . . . . . . . . 43.
— Guds nád og vinfeingi . . . . . . . . . 44.
— tímans vanbrúkun . . . . . . . . . . . . 46.
— bæninna . . . . . . . . . . . . . . . 48. 59.
— forsómun þess góda . . . . . . . . . . . 50.
— hégóma veraldarinnar . . . . . . . . . . 51.
— mædu og mótlæti þessa lífs . . . . . . 55. 69.
— lofgjörd Skaparans . . . . . . . . . . . 56.
Lífsreglur . . . . . . . . . . . . . . . . 57.
Um Guds dásemdarverk . . . . . . . . . . 58. 89.
— heimsins vidhald . . . . . . . . . . . 65.
— nægjusemi . . . . . . . . . . . . . . . 66.
— gott mannord . . . . . . . . . . . . . 67.
— ydrun, umvendun og lífernis endurbót 32. 68. 71.
75. 79. 82. 83.
— veginn til himinsins . . . . . . . . . . 73.
— sjálfsprófun . . . . . . . . . . . . . . 74.
— Jesú Krists kærleika . . . . . . . . . 76. 77.
— mannkærleika . . . . . . . . . . . . . . 81.
— Guds alvizku . . . . . . . . . . . . . . 85.
— Guds elsku til mannanna . . . . . . . . . 88.

# Til Lesarans.

Sálmar þessir, er hér byrtast almenníngi í fyrsta sinni prentadir, útaf Stúrms hugvekna fyrsta parti, hvørjar í lángann tíma hafa verid alþjódleg og gédþeck húslestrarbók á Islandi, eru orktir árid 1808 af Prestinum til Breidabólstadar og Narfeyrar safnada á Skógarstrønd Síra Jóni Hjaltalín, og hefir sonur hans Studios. chir. Jón Hjaltalín árid 1834 yfirlátid mér Gunnlaugi Oddssyni forlagsrétt þeirra, hvørn fadir hans ádur hafdi hønum tilstadid. Hafa Sálmar þessir opt verid afskrifadir og vída hvar súngnir vid kvøldlestur í heimahúsum, og verid í miklum metum og afhaldi hjá øllum þeim, er hafa þeckt og brúkad þá, hvad sérhvør adgætinn lesari mun

vidurkénna ad þeir verdskuldi bædi vegna síns kristilega og gudrækilega innihalds og sinnar hæfilegu leingdar til húsandagtar. Vér vonum því ad útgáfa þessara Sálma muni gedjast øllum skynsømum og gudræknum mønnum, og verda medal til ad efla kristilegt hugarfar og lífga og ørfa gudrækilegar tilfinníngar hjá lesendum þeirra; hvartil gódur Gud virdist ad leggja sína nád og blessun.

Kaupmannahøfn þann 20 Marts 1835.

G. Oddsson. Þorg. Gudmundsson.
P. Helgason.

